GUNNAR DAL:

Vera, ljóð, 1949
Sfinxinn og hamingjan, ljóð, 1953
Rödd Indlands, 1953
Þeir spáðu í stjörnurnar, 1954
Sfinxinn og hamingjan, 2. útg., 1954
Sókrates, 1957
Spámaðurinn (þýdd ljóð), 1958
Októberljóð, 1959

Saga heimspekinnar:

Leitin að aditi, 1961
Tveir heimar, 1961
Líf og dauði, 1961
Hinn hvíti lótus, 1962
Yoga, 1962
Sex indversk heimspekikerfi, 1962
Grískir heimspekingar, 1962

Af þessari bók eru útgefin 25 tölusett og áritað eintök og er þetta 21. eintakið.

Gunnar Dal

# Uppruni vestrænnar heimspeki

Með forn-Grikkjum táknaði orðið „fílósófía“ upphaflega aðeins hollustu við vizkugyðjuna. Fílósóf var sá, að sögn Platós, sem „fús var að kanna alla þekkingu og leita hennar fullur skilningsgleði af óseðjandi fróðleikslöngun“. Heimspekingi lýsir hann ennfremur sem manni, sem ber virðingu fyrir lífinu og undrast leyndardóma þess. Fróðleikslöngun heimspekingsins var ekki einskorðuð við siðfræði, rökfræði eða „metafysik“. Honum var ekkert óviðkomandi, hann átti að leita allrar þekkingar, en sannvitur gat hann þó ekki orðið fremur en aðrir.

„Vitra kalla ég þá ekki,“ lætur Plató Sókrates segja í „Phaidros“, „það er stórt orð, sem sagt verður um guð einn. Vinir vísdómsins eða

fílósófar er þeirra hógværa og rétta nafn“.

Fílósóf táknaði því ekki mann, sem öðlazt hefur hina sönnu vizku, því að hún var talin ofar vitsmunum mannsins. Fílósóf var sá kallaður, sem bar virðingu fyrir þekkingu og sannindum og leitaði þeirra af einlægni og með opnum hug.

Fræðimenn á Vesturlöndum, sem numið hafa heimspeki og skráð sögu hennar, telja hana nær allir upprunna með Forn-Grikkjum og fullyrða, að Þales, sem var samtíðarmaður Gautama Búdda og Lao Tze, hafi verið fyrsti heimspekingur veraldarsögunnar. Það er trú þeirra og kenning, að heimspekin sé upprunnin með vestrænum þjóðum og ekki að neinu leyti arfur frá hinum gömlu menningarþjóðum austursins.

Kenning þessi hefur verið rökstudd á ýmsan hátt. Sumir halda því fram, að án stærðfræði og raunvísinda geti ekki verið um neina heimspeki að ræða, og þeir fullyrða, að þessi vísindi séu upprunnin með Grikkjum (sjá m. a. Greek Philosophy eftir hinn ágæta fræðimann John Burnet).

Aðrir halda því fram, að saga heimspekinnar hefjist með Grikkjum, þar sem þeir fyrstir

þjóða hafi iðkað heimspeki vegna heimspekinnar sjálfrar, án sérstaks tilgangs. (Sjá t. d. Alf Ahlberg: Filosofiens Historia). Enn aðrir segja að í Austurlöndum, Indlandi t. d., séu fjöllin of há, fljótin of breið og ströng og skógarnir og eyðisandarnir of geigvænlegir til að fóstra vísindi og heimspeki. Þar halda, segja þeir, jarðskjálftar, fellibyljir og rándýr manninum í stöðugum ótta við náttúruöflin og umhverfi sitt og gera hann fullan hjátrúar og ófæran um að leita og finna hina sönnu orsök hlutanna.

Í Grikklandi aftur á móti, segja þeir, er náttúran mildari. Þar gat maðurinn lifað óttalaus og leitað hinna sönnu orsaka í friði við náttúruöflin og guði sína. (H. Buckle og fleiri). — Allar eru þessar röksemdafærslur þó nokkuð vafasamar. Hin fyrsta er þó veigamest, enda boðuð af ýmsum hinna beztu fræðimanna um gríska heimspeki og Plató sjálfur er þar kallaður til vitnis um að heimspeki án stærðfræði og raunvísinda sé ekki til.

Augljóst er að allar heimspekilegar hugrenningar mannsins hljóta að byggjast á því, sem hann veit, eða þykist vita. Hitt er erfiðara að fullyrða nokkuð um, hvað af því sem maður-

inn veit eða þykist vita er hinn rétti grundvöllur heimspekinnar. Hvers vegna er það öruggt að stærðfræði og raunvísindi séu hinn eini grundvöllur, sem hægt er að byggja heimspeki á? Er jafnvel víst að þessi vísindi séu sönn þekking? Og hvað Plató sjálfan snertir, þá er augljóst, að margt er það í heimspeki hans sjálfs, sem ekki byggist á stærðfræði og raunvísindum.

En jafnvel þó við föllumst á að engin heimspeki geti verið til án stærðfræði og raunvísinda, er þá öruggt að þetta tvennt sé upprunnið með Grikkjum? Burnet viðurkennir að stærðfræðiþekking og vísindi þurfi ekki að vera á háu stigi til þess að þau skapi jarðveg fyrir heimspeki. Það er ekki sannfærandi, að sú þjóð, sem reisti pýramída, hafi ekki þekkt stærðfræði eða stafróf neinna skynsemivísinda.

Það er staðreynd að Grikkir lærðu að reikna út sólmyrkva og þekkja gang himintungla af Babyloníumönnum. — Og er það samboðið sannleiksást vísindamanns að neita því, að Indverjar hafi þekkt stærðfræði, stjörnufræði og náttúruvísindi fyrir daga Þalesar og hinna fyrstu heimspekinga Vesturlanda? Og hvað

um hin ævafornu menningarríki á Krít? Er hægt að fullyrða, að það fólk, sem reisti þriggja og fjögurra hæða háar hallir í Faistos og í Knossos af ótrúlegu hugviti og tækni, hafi ekki kunnað nein vísindi?

Fræðimenn hafa fyrir löngu kveðið upp þann dóm að heimspeki hafi orðið til með Grikkjum. Ýmsir þeir sem nú skrifa um þessi efni hafa þetta eftir af gömlum vana, þótt rökin fyrir hinu gagnstæða ættu raunar að vera öllum ljós.

Þá er komið að þeirri kenningu, að heimspekin hefjist með Grikkjum vegna þess að þeir hafi fyrstir þjóða iðkað h eimspeki vegna heimspekinnar sjálfrar, án sérstaks tilgangs. Rétt er það að hin forna indverska heimspeki t. d. á sér jafnan ákveðinn tilgang. Sá tilgangur er einkum tvenns konar: Sjálfsþekking, eða leitin inn á við, og rétt breytni eða sókn mannsins út á við. Kjarni hinnar réttu breytni er þar talinn hófsemi, „hinn gullni meðalvegur". En á þá grísk heimspeki sér engan sérstakan tilgang? Á veggjum hins mikla Apollosmusteris véfréttarinnar í Delfi var skráð: „Þekktu sjálfan þig" og „Hóf er á öllu bezt".

Þessi kjörorð véfréttarinnar í Delfi urðu síð-

an kjörorð Sókratesar og Platós og um leið að verulegu leyti varð þetta tvennt tilgangur grískrar heimspeki, þegar hún reis hæst og stóð með mestum blóma. Indversk og grísk heimspeki virðist þannig ekki nein andstæða hvað tilganginn snertir. Þvert á móti virðist ljóst að þar er um nákvæmlega sama tilgang að ræða: Sjálfsþekkingu og hófsemi. Þetta sameiginlega markmið er e. t. v. engin tilviljun: Delfiborg er byggð frá Knossos á Krít og þaðan bárust því trúarhugmyndir og andi þessarar fyrstu andlegu höfuðborgar hins gríska meginlands. Jafnvel guðinn Apollo (Baldur) sem Grikkir trúðu að gerði Delfi helga með nærveru sinni var eins og kunnugt er guð Kríteyinga og Grikkir töldu hann hafa komið frá Krít til Delfi. Í konungshöllinni („völundarhúsinu") í Knossos má enn í dag sjá á veggjum hennar myndir af helgitákni hans, höfrunginum. (Annað helgitákn hans var Baldursbráin).

Höfrungur nefnist á grísku delfin. Þessi borg Kríteyinganna á meginlandi Grikklands er kennd við guð þeirra og nefnd borg Apollos — eða Delfi. Þannig er augljóst að menning Delfi, sem varð andleg höfuðborg og helgidómur

Grikklands, er komin frá Krít. — Og Krít var sjóveldi, sem stóð í nánu sambandi við löndin fyrir botni Miðjarðarhafsins en þau aftur við allan hinn austræna heim. Það þarf því ekki að vekja neina furðu þótt vísdómsorðin á veggjum musterisins í Delfi finnist víðar en þar, og að tilgangur grískrar og austurlenzkrar heimspeki sé skyldur. Sú staðhæfing, að heimspeki hefjist með Grikkjum vegna þess að þeir fyrstir þjóða hafi iðkað heimspeki vegna heimspekinnar sjálfrar án sérstaks tilgangs, virðist að þessu athuguðu naumast eiga sér nægilega traustan grundvöll.

Loks er rétt að líta á hina þriðju kenningu söguritaranna til sönnunar því að vísindi og heimspeki hljóti að vera upprunnin með Grikkjum. Hún var eins og áður er sagt á þá leið að vegna loftslags og umhverfis geti þetta tvennt ekki hafa komið fram í Austurlöndum, sérstaklega ekki í Indlandi. Skilyrði fyrir heimspeki og vísindum sé fyrst að finna í Grikklandi (Buckle). Þetta er á vissan hátt skynsamleg kenning og vel framsett, en þó vafasöm: Eins og menn vita, þá er Indland líkara heimsálfu en ríki. Þar má einnig finna alveg jafn friðsæl og frjósöm lönd og Grikkland, þar

sem maðurinn þarf ekki að vera haldinn sífelldum ótta við náttúruöflin. Og þó þar séu einnig rándýr, fellibyljir, jarðskjálftar og ægilegar eyðimerkur — getur þá ekki jafnvel óttinn og þjáningin orðið anda mannsins til nokkurs þroska? Og þó að þar séu torfærir skógar og hrikaleg fjöll, er það þá þar með sagt að þau hefti mannsandann?

Hvar reis andlegt flug manna í Grikklandi hærra en einmitt þar sem fjöllin voru hrikalegust? — Milli hengiflugs Hyamþeia og Parnassostinds voru heimkynni guðsins Dionysosar og rómversku skáldin gerðu það fjall síðar að dvalarstað Apollos og menntagyðjanna. Vegna hrikaleika þessara fjalla var Delfi hin helga borg, reist við rætur þeirra. Á Diktefjalli á Krít er Rea sögð hafa fætt son sinn Seif, föður guða og manna. Til þessa staðar lögðu pílagrímar löngum leið sína og tilbáðu Seif í hinum hrikalega Diktehelli, þar sem þeir þóttust sjá mynd guðsins í dropasteinunum. Sagan segir að Minos konungur í Knossos hafi numið þar lög af Seifi, hin fyrstu lög vestrænnar siðmenningar. Og hinir grísku guðir bjuggu eins og allir vita á Olymposfjöllum, hæstu fjöllum Grikklands.

Þannig hafa hin hæstu fjöll Grikklands vakið hugmyndaflug manna og fengið þá til að leita hins óþekkta. Satt er það að vísu að þjóðsagnir og goðafræði eru ekki heimspeki, — en þar sem skáldið fer er heimspekingurinn sjaldan fjarri, því að viðleitni skáldsins eins og spekingsins er að skilja og skýra þá tilveru sem það hrærist í og þá leyndardóma, sem felast að baki hennar.

Og ef nú hin hrikalegustu fjöll Grikklands hafa orðið til að lyfta mannsandanum, hvers vegna ættu þá Himalajafjöll, þótt þau séu þrisvar sinnum hærri en Olympostindur, að vera mannsandanum fjötur um fót? Og þó að þau séu hrikaleg og snævi þakin, þá mætti þó einhverjum takast að finna skjól í kyrrlátum dölum þeirra. — Og þó að skógarnir séu torfærir yfirferðar, þá er það ekki nein sönnun þess að í einveru þeirra megi ekki leita einhverra sanninda. Og að lokum þar sem hinar fornu bækur Indlands sanna að þar hafa blómgazt bæði vísindi og heimspeki fyrir daga Þalesar, þá hlýtur þessi kenning að tapa ljóma sínum.

Engin þessara þriggja röksemda fyrir þeirri fullyrðingu að heimspeki sé upprunnin með

Grikkjum og að Þales sé fyrsti heimspekingur veraldarsögunnar virðist því reist á bjargi staðreyndanna. Þvert á móti virðast þær byggðar á sandi ófræðimannlegrar óskhyggju, sem vanmeta þarf framlag hinna fornu menningarþjóða austursins til þess að hægt sé að eigna vestrinu einu hin göfugustu fræði mannsandans.

Í stað þess að vanmeta menningu hinna fornu þjóða austursins væri öllu réttara að líta á hana sem fóstru vestrænnar heimspeki og vísinda, því að mannkynið er ein heild og í þróun þess vekur ein báran aðra. Þar skapast ekkert úr engu.

# Þales

Þeir fræðimenn, sem fullyrða að heimspeki sé upprunnin með Grikkjum, telja Þales jafnan fyrsta heimspeking veraldarsögunnar. Samt er Þales ekki frá Grikklandi sjálfu heldur frá borginni Miletos í Litlu-Asíu, en hún liggur á mótum austurs og vesturs. Borgin Miletos var nýlenda — ekki frá hinu eiginlega Grikklandi heldur frá Krít og var byggð þaðan seint á því menningarskeiði, sem kennt er við Minos konung í Knossos. Á þeim tímum hafði kríteysk menning ekkert að sækja til meginlands Grikklands, en stóð í nánum tengslum við Egyptaland, Litlu-Asíu og Persíu. Einnig mætti ætla, að menningaráhrif hafi borizt til Krítar frá hinum fjarlægari Austurlöndum, t. d. Indlandi. Fundizt hafa ýmis líkneski og fornminj-

ar á Krít, þar á meðal hakakrossinn, sem gætu bent á indversk áhrif. Þetta gæti verið tilviljun, en þar sem Krít var sjóveldi má þó ætla, að um hana hafi leikið menningarstraumar hins forna heims. Nýlendan Miletos var sjóveldi og verzlunarborg eins og fóstra hennar Knossos. Veldi Miletos byggist einmitt á því, að hún tekur auð og menningu Krítar að erfðum.

Í Miletos, borginni þar sem austur og vestur mætast, blönduðust saman ólík þjóðerni. Ólík lífsviðhorf og ólíkar hugmyndir áttust þar við. Þar lærðist mönnum að skilja framandi sjónarmið, og sá skilningur gerði mannfólkið víðsýnna og umburðarlyndara. Kaupmannalestir Miletos komu og fóru og þær og farmenn hennar héldu til framandi landa og fluttu heim með sér nýjar hugmyndir frá Egyptalandi, Persíu og víðar að. Ný áhrif knýja menn til að endurskoða fyrri sjónarmið. Þau setja rót á hugmyndaflug mannsins. Og í þessu róti rísa einnig öldur heimspeki og vísinda. — Að Þales kemur einmitt fram á þessum stað og tíma, sýnir hina eðlilegu framvindu mannsandans frá hinum forna, austræna heimi í áttina til hinna andlega fátæku Vesturlanda þeirra tíma.

Það er óhugsandi, að í borg eins og Miletos hafi Þales og vinur hans og lærisveinn Anaximander verið einir heimspekinga. Þar hlýtur að hafa verið allstór hópur manna, sem glímdi við sömu gátu og Þales, þótt hann í sögu síðari tíma mæti sem fulltrúi þeirra. Það var að fornu jafnan til hans vitnað, sem „eins hinna sjö vitru manna“. Bæði á Krít og í Austurlöndum var talan sjö oftast ekki notuð í bókstaflegri merkingu heldur táknaði hún aðeins fjölda. Þegar Þales er því sagður „einn hinna sjö vitru manna“ er sennilegt að það hafi upphaflega þýtt, að hann hafi verið einn hinna mörgu heimspekinga þeirra tíma, þótt ýmsir fræðimenn hafi síðar tekið þetta í bókstaflegri merkingu og tilnefnt „hina sjö vitru“ án þess að þeim beri saman um hverjir það séu.

Þales var af höfðingjaættum fæddur í Miletos um 600 f. K. (almennt talinn uppi 626—548 f. K.). Um ævi hans og kenningar vita menn lítið með vissu. Sjálfur skrifaði hann ekki neitt svo vitað sé (bókin „Stjörnufr. fyrir sjófarendur“, sem eignuð var Þales, er nú ekki talin hans verk) og þekking okkar á honum og heimspeki hans byggist því á ritum manna sem lifðu eftir hans dag. Þessir rithöfundar

hafa um hann margar sögur að segja, sögur sem lýsa Þales ýmist sem vísindamanni sem með þekkingu sinni getur fært sér í nyt auðlegð jarðarinnar — eða skýjaglóp, sem rýnir í leyndardóma himnanna. Ein sagan lætur hann gleyma jörðinni, sem hann gengur á, vegna hinna fjarlægu stjarna og heimspekingurinn fellur í brunn, sem á vegi hans varð. Og hinar hagsýnu konur borgarinnar, sem voru vanar að sækja vatn í þennan sama brunn, horfa hlæjandi á hinn vísa mann — skýjaglópinn, sem kenndi að öll tilveran væri vatn! Engin furða þótt hann geti ekki gert greinarmun á vatninu í brunninum og öðru vatni! En Þales stóð þrátt fyrir allt föstum fótum á jörðinni. Hann stóð framarlega í stjórnmálum og beitti sér fyrir sameiningu hinna 12 borgríkja.

Þá var hann um skeið ráðgjafi Krössosar Lydiukonungs. — Víst má telja að við hirð hans hafi Þales kynnzt margvísum kunnáttumönnum, sem þekkt hafa heimspeki og vísindi austursins. Og vísindi og heimspeki var það sem Þales leitaði að. Sem vísindamaður er hann sagður hafa breytt farvegi Hylasfljóts fyrir Krössos konung. Hann er sagður hafa reiknað út sólmyrkvann 28. maí 585 f. K. —

Babyloníumenn og Egyptar kunnu þá list fyrir hans dag. Sumir halda því fram að Þales hafi ferðazt til Babylon og Egyptalands. En jafnvel þó svo hefði ekki verið, hefði Þales vel getað kynnzt þessum vísindum í Litlu-Asíu vegna hins nána sambands hennar og þessara ríkja. — Eudemos, sá er fyrstur skrifaði sögu stærðfræðinnar, segir í sögu sinni að Þales hafi fyrstur manna kennt Grikkjum geometríu. Enginn vafi er á, að Þales hefur a. m. k. þekkt stærðfræði Egypta og hann er jafnvel sagður hafa vaxið kennurum sínum yfir höfuð og kennt egypzku prestunum að reikna út hæð pýramídanna eftir skugga þeirra. Hann er einnig sagður hafa fundið aðferð til að reikna út fjarlægð skipa á hafi úti.

Hið heimspekilega viðfangsefni Þalesar var alveran. Þales komst að þeirri niðurstöðu að allt í tilverunni væri af einni rót. Hið fyrsta hlaut því að vera hið eina. Ráðgátan mikla, sem leysa varð til þess að skilja eðli tilverunnar, var þess vegna: — Hvað var fyrst? Hvað er það sem allt er komið frá?

Hinir sömu fræðimenn, sem telja Þales fyrsta heimspeking veraldarsögunnar, fullyrða að svar Þalesar við þessum spurningum hafi

verið: — Vatn. Og með þessu orði „vatn“ hafi Þales átt við nákvæmlega sama fyrirbrigði og við á öld efnafræðivísindanna eigum við með því orði.

Fræðimennirnir eru vanir að staðfesta þennan skilning sinn með tilvitnun í rit Aristótelesar og útskýra síðan kenningar Þalesar eitthvað á þessa leið: Fyrir daga Þalesar var til saga um það, að jörðin sé eyja í hinu mikla fljóti Okeanos. Þess vegna hélt Þales, álykta fræðimennirnir, að jörðin flyti á vatni. Það er haf kringum öll lönd og allt lifandi nærist á vatni. Og Þales ályktaði segja fræðimennirnir: Það er vatn í öllum hlutum. Vatnið gufar upp og verður að lofti. Vatnið frýs og verður að föstu efni. Þess vegna hélt Þales, segja fræðimennirnir, að allt efni væri umbreytt vatn, að vatnið væri upphaflegast og að öll tilveran væri því í eðli sínu vatn. Hinir lærðu menn viðurkenna að þetta sé barnaleg hugmynd hjá Þalesi og kalla hann því „siðmenningarbarnið“, sem gerir sínar fyrstu athuganir á veröldinni. Og þetta er söguritaranum einnig hagkvæmt til að ná hinni réttu stígandi í sögu sína, því að frá hans sjónarmiði eru „vorir tímar“ ævinlega tindurinn sem

heimurinn er skoðaður af. — Það hefur enn ekki verið sannað að hugsuðir fyrri alda hafi alls staðar rist til muna grynnra en nú gerist. Vísindin halda því fram að mannshöfuð fari stækkandi með auknum þroska — en hvers vegna var þá heilabú Krómagnonmannsins t. d., sem lifði fyrir 20.000 árum, þriðjungi stærra en höfuð okkar sem lifum á 20. öldinni eftir Krists burð?

Fyrsta skilyrðið til að skilja heimspekinga fornaldarinnar er að menn beri fulla virðingu fyrir vitsmunum þeirra og trúi því, að þeir hafi verið a. m. k. næstum því eins skynsamir og við erum sjálf. Þales, eins og fyrr segir, skrifaði aldrei neitt sjálfur og gæti því auðveldlega hafa verið freklega misskilinn af ýmsum fræðimönnum síðari tíma, því að eins og Bertrand Russell segir einhvers staðar: „Heimskingjarnir fara aldrei rétt með orð viturs manns“! Á þetta ekki sízt við um þann sem fjallað hefur fyrir árþúsundum um hin dýpztu rök og jafnvel talað í líkingum, eins og þá er jafnan háttur manna. Til að skilja hið heimspekilega vandamál Þalesar er ekki nóg að skýra það í ljósi vísinda og kenninga sem fyrst komu fram jafnvel löngu eftir hans daga,

þvert á móti verða menn að þekkja og skilja fortíð Þalesar og þann andlega jarðveg sem heimspeki hans er sprottin úr.

Þales skildi, eins og áður er sagt, hina heimspekilegu nauðsyn þess að líta á tilveruna sem einingu. Þess vegna leitaði hann þess innsta; þess sem allt er komið frá og spurði: Hvað var fyrst? Hvað er alveran? — Til eru þeir sem telja, að heimspeki hefjist með þessari spurningu Þalesar. En þessi spurning var þó engan veginn ný í hinum forna austræna heimi, og henni hafði verið svarað þar löngu — jafnvel árþúsundum — fyrir daga Þalesar. Áður en lengra er haldið er nauðsynlegt að þekkja lausn hinna mestu menningarþjóða fornaldarinnar á þessu vandamáli Þalesar.

Egypzku heimspekingarnir, sem skráð hafa helgiritið „Memfis sjónleikurinn" (Memfis var hin forna höfuðborg Egyptalands) glíma í þessu riti við sama vandamál og Þales. Þetta rit er talið skráð af egypzkum prestum frá Heliópólis (Sunnuborg), um 2500 fyrir Krists burð, eða næstum tveimur árþúsundum fyrir tíð Þalesar. Á 8. öld f. K. lét konungurinn Shabaka höggva texta hinna fornu papírusblaða í svartan stein til að varðveita betur hið forna

rit. Síðar var þessi steinn notaður sem myllusteinn, og hefur því textinn máðst sums staðar, svo að fræðimenn í British Museum geta þar nú aðeins séð brot hins upphaflega texta. Ljóst er þó af þessum texta og fleiri fornritum, að svar hinna egypzku heimspekinga við spurningu Þalesar er það, að andinn sé fyrstur og hans sé mátturinn til að skapa: — Patah, guð sköpunarinnar, er sagður „hjarta“ og „tunga“ guðanna. Hjartað táknar andann, tungan (eða orðið) sköpunina. Allt í tilverunni er það sem „hjartað hugsaði og tungan bauð“ (Memfis sjónleikurinn). Þannig hugsar andinn hið skapaða, veröldina, og síðar kemur fram í textanum, að eftir að andinn skapar veröldina, þá er hann í henni og stjórnar henni. Þetta minnir óneitanlega mjög á hið fræga upphaf Jóhannesarguðspjalls, engu síður en önnur setning úr þessu riti (Memfis sjónleiknum) „og þannig var Patah ánægður eftir að hafa skapað alla hluti og hvert guðlegt orð“, minnir á frásögn Gamla testamentisins um sköpun heimsins. Gera verður ráð fyrir, að á dögum Þalesar sé þetta rit alkunnugt, þar sem það er í tízku hjá konungum og valdamönnum.

Löngu fyrir daga Þalesar höfðu indverskir

heimspekingar glímt við vandamál hans og birt niðurstöður sínar. — Að þeirra dómi er andinn fyrstur og hefur ekki aðeins skapað allt, heldur er allt (orka og efni) andi á ákveðnu stigi, eða mismunandi birting hans: Andinn í tilverunni er á mörgum stigum. (Þó að talað sé um hin sjö stig anda, orku og efnis, þá táknar talan sjö hér sennilega aðeins fjölda, eins og algengt var). En jafnvel á sínu hæsta stigi býr andinn yfir eigind orkunnar og getur skapað orku eða umbreytzt í orku. Orkan er einnig talin vera á mörgum stigum, en öll orka getur umbreytzt í efni. Þannig er orka og efni frá andanum komið og er andi í umbreyttri mynd eða andi á ákveðnu stigi. Vegna þess að andinn er í orkunni og efninu heldur hann öllum taumum tilverunnar í hendi sér — og einmitt það er skýringin á því, hvers vegna um vit og samræmi er að ræða í veröldinni. — Þannig er svar hinna indversku heimspekinga í fyllsta samræmi við skilning hinna egypzku. — Og einmitt þetta, að andinn sé fyrstur, mun vera svar hins forna austræna heims við vandamáli Þalesar, einnig hjá andans mönnum í Ísrael, ef þeir eru rétt skildir. Svar þeirra er okkur bezt kunnugt af upphafi

Jóhannesarguðspjallsins, er var skrifað á grísku og sérstaklega ætlað grískum lesendum og verður því að gefa skýringar á heimspekilegum vandamálum. Ætla verður, að hið fræga upphaf Jóhannesarguðspjallsins sé í samræmi við niðurstöður hinna gömlu spámanna og andans manna Ísraels, og er sennilegt, að þeir hafi þekkt „Memfis sjónleikinn“. En hvert er þá svar Jóhannesarguðspjallsins við vandamáli Þalesar? — „Í upphafi var orðið, og orðið var hjá guði, og orðið var guð“. Í fyrstu kann þetta að virðast allkynleg málsgrein. Framsetning hennar er í gömlum austurlenzkum heimspekistíl. Sama orðið er þrítekið í þremur setningum. Þeirri aðferð er oft beitt í austurlandaheimspeki, þegar orð hefur margs konar merkingu og höfundurinn vill leggja ríka áherzlu á í hvaða merkingu hann noti orðið, svo að boðskapur hans verði ekki misskilinn. Þeir, sem óvanir eru orðnir þessari framsetningu, geta þó auðveldlega misskilið höfundinn og fundizt hann bæði grunnfær og skorta rökrétta hugsun. — „Í upphafi var orðið“. — Þarf ekki að hugsa áður en talað er? — Hlýtur þá ekki hugsunin að vera til á undan orðinu? Og á hugsunin sér ekki einhvern grundvöll, and-

ann eða guðdóminn? Er hann þá ekki orsök hugsunarinnar? Og enn óljósara og óheimspekilegra verður framhaldið þegar okkur er sagt að orðið verði hold. Þeir egypzku og indversku hefðu sagt, að andinn hefði orðið hold. Höfundur Jóhannesarguðspjalls á þó, þegar betur er að gáð, við það sama. Þessi umrædda málsgrein Jóhannesarguðspjalls birtist aðeins í óheimspekilegum búningi vafasamra þýðinga. Á grískunni stendur: Í upphafi var logos, o. s. frv. Mörg orð yfir guðfræðileg og heimspekileg hugtök í grísku eru eins og kunnugt er tökuorð úr pali, sanskrít og hebresku. Þetta orð, logos, er til á öllum þessum þremur tungum. Á pali og sanskrít táknar orðið sjálfan guðdóminn eða hinn skapandi mátt hans. Í hebresku hefur orðið svipaða merkingu. Þar táknar það hina guðlegu vizku, sem veröldina skapaði. Í grísku kemur orðið logos fyrst fyrir hjá heimspekingnum Herakleitos á 5. öld f. K. Þar hefur orðið svipaða merkingu og í sanskrít og hebresku: Hin guðlega vizka, sem skapar og stjórnar öllum hlutum gegnum allt. Herakleitos og aðrir grískir heimspekingar þóttust sjá vit og samræmi í sköpun veraldarinnar.

Logos, sá máttur guðdómsins, sem þessari sköpun veldur, fer þess vegna um leið að þýða heimssamræmi og rökrétt samhengi (logik). Hið rökrétta samhengi í hugsun mannsins birtist þegar bezt lætur í ræðu hans og riti. Þess vegna fékk orðið logos einnig merkinguna ritháttur eða framsetning. Og þar sem ritháttur og framsetning er byggt upp af orðum, fékk logos einnig hina nýjustu merkingu sína, — orð. „Í upphafi var logos“ útleggja guðfræðingarnir: í upphafi var orðið. Logos er þar þýtt eins og það væri notað í sinni síðustu og afleiddustu merkingu. Í upphafi Jóhannesarguðspjalls er þó orðið logos greinilega notað í hinni upphaflegu, réttu og heimspekilegu merkingu. Sú heimspeki, sem þessi ritningargrein flytur, er því þessi: 1) Í upphafi var logos: Í upphafi var hin guðlega vizka, sem er orsök veraldarinnar. 2) Og logos var hjá guði: Sköpunarmátturinn er eiginleiki guðdómsins. 3) Og logos var guð: Þetta tvennt er eitt og hið sama, logos, orsök veraldarinnar, er guðdómurinn, andinn. Og nú er auðveldara að skilja hvað átt er við með því þegar sagt er, að logos hafi orðið hold: Andinn, guðdómur-

inn skapar veröldina og þar sem tilveran er af einni rót, þá er hann í veröldinni og er veröldin.

Þannig virðast andans menn Ísraels hafa komizt að svipaðri niðurstöðu í þessu vandamáli Þalesar og Egyptar og Indverjar: Í upphafi var andinn (guðdómurinn) og frá honum er komin þessi veröld orku og efnis. Þetta var sameiginlegt austrænni heimspeki og þetta er sá jarðvegur, sem hið heimspekilega viðfangsefni Þalesar er sprottið úr.

Vegna hins nána sambands Miletos og Litlu-Asíu yfirleitt við hinn austræna heim, vegna aðstöðu Þalesar til að umgangast hina lærðustu og vitrustu menn og vegna lærdóms og gáfna hans sjálfs, mætti vel ætla að Þales hafi þekkt þessa heimspeki — jafnvel flestum betur þar sem hann með samtíð sinni í hinum gríska heimi þótti lærðastur og vitrastur manna. — Allir, sem skrifað hafa sögu heimspekinnar, hafa það hver eftir öðrum, að Þales hafi kennt að vatnið væri upphaf og „frumefni“ tilverunnar, og að tilveran væri í eðli sínu vatn á mismunandi stigi. Ástæðan til þessa er m. a. þau ummæli, sem fræðajötunninn Aristóteles lét falla um heimspeki Þalesar.

Aristóteles segir Þales hafa haldið því fram, að vatnið væri „hin efnislega orsök allra hluta". En er öruggt að þessi orð Aristótelesar um Þales séu óyggjandi? Eftir Þales liggur ekkert rit um heimspeki hans. Aristóteles verður að byggja á sögusögn annarra. Hann verður að geta sér til, hvað Þales hafi verið að fara og þessar getsakir mótast greinilega af kenningum og röksemdum, sem koma fyrst fram eftir dag Þalesar, og eru í tízku um þær mundir sem Aristóteles og hans menn útskýra heimspeki Þalesar. Og valt er að treysta því, að Aristóteles fari rétt með, þegar hann segir að Þales hafi talað um vatnið sem „hina efnislegu orsök allra hluta", vegna þess m. a., að jafnvel þetta hugtak, „hin efnislega orsök", sem er einkennandi fyrir heimspeki Aristótelesar sjálfs, er ekki til á dögum Þalesar, þar sem Þales og heimspekingar Miletos telja ekki ástæðu til að greina milli anda og efnis sem tveggja fjarskyldra hluta, eins og gert var á dögum Aristótelesar. Jafnvel orðið vatn í þeirri þröngu og efnislegu merkingu, sem það orð er nú notað í, var heldur ekki til á dögum Þalesar. Það orð, sem á dögum Þalesar var notað um vatnið, merkir ekki aðeins vatn,

gufu og ís, það var einnig notað um mistur, loft og ljósvaka. Merking þess náði frá djúpum hafsins að mörkum hins yfirskilvitlega, og það sem gerði merkingu þess dýpri og víðtækari var, að á þessum tímum var vatnið allt frá landi Lao Tze til landanna við botn Miðjarðarhafsins talið tákn andans og guðdómsins og hins óræða, sem orð ná ekki yfir, en reynt var að tákna með líkingum: — Í Ísrael var vatnið eins og kunnugt er tákn guðdómsins og fæðingarinnar til hins andlega lífs, — og með kristnum þjóðum eru börn enn í dag vatni ausin og skírð „í nafni föðurins, sonarins og heilags anda“. — Í Rig-Veda hinni indversku er talað um „hin miklu vötn“ (andann), sem ríktu „í upphafi“ og bera í sér frjóanga alls þess, sem skapað er, var og verður. Hér táknar vatnið hið sama: andann, guðdóminn. Í Egyptalandi var guð fljótsins (Nílar) guð frjósemi og sköpunar og vatnið var því tákn hans. Jafnvel í hinu fjarlæga Kínaveldi glímdi samtíðarmaður Þalesar, Lao Tze, við sömu gátu og hann. Lao Tze er að vísu yngri en Þales (fæddur 604 f. K.) og því ekki um nein áhrif að ræða frá Lao Tze. En vandamálið, sem Lao Tze tók til meðferðar, og líkingarnar,

sem hann notar, eru eldri en hann. Viðfangsefni Lao Tze var nákvæmlega hið sama og Þalesar: „Hvað er fyrst“ og „hvað er hið eina“? Fræðimennirnir segja, að Þales hafi svarað: „vatn“. Lao Tze svaraði: „taó“. En áttu þeir ekki báðir við eitthvað svipað? Orðið „taó“ hafði ekki síður djúpa og víðtæka merkingu en lausnarorð Þalesar. „Taó“ er útlagt með: „guð“, „náttúra“, „logos“, „heimssamræmi“ — og samt hafði orðið „taó“ enn dýpri merkingu, því að það „taó“, sem orð nær yfir, er ekki hið eilífa, sanna „taó“. Hugtakið er í innsta eðli sínu órætt eins og guðdómurinn gagnvart skilningi mannsins. Það, sem orð nær ekki yfir, er oft reynt að tákna með einhverju í hinni ytri tilveru. Táknin, sem Laó Tze notaði (og hann er auðvitað ekki upphafsmaður þess, heldur eru þessi tákn miklu eldri) var himinninn (loftið) og vatnið. Orðið, sem Þales notaði sem lausnarorð hinnar sömu gátu, þýddi bæði loft og vatn, eins og fyrr er sagt. Söguritararnir halda, að Þales hafi átt við með því að vatnið væri „hin efnislega orsök allra hluta“, að öll tilveran væri vatn á mismunandi stigi. En er víst að Þales hafi verið eins barnalegur í heimspeki sinni og fræðimennirnir

halda? Er ekki þegar öllu er á botninn hvolft líklegra að Þales hafi aðeins táknað hið innsta eðli tilverunnar með vatninu, sem er mýkst allra hluta, en jafnar þó fjöllin við jörðu, vatninu, sem nærir allt líf, vatninu, sem fellur til jarðar og rís til himins og táknar hina miklu hringrás margbreytilegrar veraldar, sem þó á sér eitt upphaf og er af einni rót?

Á það skal að lokum bent, að ef Þales hefði í raun og veru kennt að vatnið væri „hin efnislega orsök tilverunnar", hefði hann hlotið að hafna í efnishyggju, þar sem hann kenndi, að tilveran væri ein heild, runnin af einni rót. En nú er Þales þvert á móti sagður hafa kennt „að tilveran væri full af guðum". Þessir „guðir" Þalesar eru að vorri hyggju ekki vatn á mismunandi stigi, — heldur andinn á sínum mörgu stigum í og að baki tilverunnar. Hann táknar aðeins hinn óræða guðdóm með því tákni,sem austurlandaþjóðir voru vanar að tákna hann með: vatninu. Þetta fær enn nýja staðfestingu í kenningum Anaximanders, sem ritaði bók, sem enn eru til slitur af, um lífsskoðun sína. Anaximander var lærisveinn Þalesar og eftirmaður hans í ríki heimspekinnar. Engin ástæða er til að ætla, að heimspeki

Anaximanders sé ekki í fullu samræmi við heimspeki Þalesar, en ef til vill hefur Anaximander uppgötvað hve varasamt það getur verið að tala í líkingum við hinn vestræna heim. Í bók sinni ræðir hann hvergi um „efnislega orsök". Þvert á móti er því þar haldið fram, að hinn ótakmarkaði og óræði guðdómur sé upphaf allra hluta.

# Anaximander

Anaximander (fæddur í Miletos í Litlu-Asíu 611 f. K.) skrifaði bók um heimspeki sína og vísindi. Það rit er það fyrsta sem skráð er á gríska tungu í óbundnu máli og um leið fyrsta heimspekirit Vesturlanda. Af því slitri sem varðveitzt hefur af þessari bók Anaximanders, „Um náttúruna“, er ljóst að hann kenndi ekki, að neitt sérstakt efni sé upphaf náttúrunnar. Það sem öll veröldin og allar veraldir eru komnar frá nefndi Anaximander „hið ótakmarkaða“ og hið óræða, einmitt vegna þess að það verður ekki greint sundur og er samnefnari alls. Allt efni hvílir að vísu í „hinu ótakmarkaða“ og er frá því komið, en með því er ekki sagt að Anaximander hafi álitið það vera eingöngu efni. Líkt og lærifaðir

hans Þales dró Anaximander ekki skýra línu milli anda og efnis, eins og síðar var gert: Í „hinu ótakmarkaða“ er allt, einnig orka og andi. Þannig verður heimspeki Anaximanders í fyllsta samræmi við heimspeki lærriföður hans Þalesar og allan þann andlega jarðveg sem heimspeki þeirra er sprottin úr: Í upphafi var andinn.

Það er hlutverk Anaximanders að halda áfram vísindum og heimspeki lærriföður síns og útskýra hvernig náttúran, hin sýnilega veröld fyrirbrigðanna, skapast úr „hinu ótakmarkaða“. — Anaximander þóttist sjá, að lífið og náttúran birtist alls staðar í andstæðum. Hinn ytri heimur fyrirbrigðanna hefur skapazt í andstæðum, ályktaði hann. Andinn er ekki hin sýnilega tilvera fyrirbrigðanna. Fyrst þegar hann birtist á stigi orkunnar hefst sköpun hinnar ytri veraldar. Orkan er eldurinn. Þess vegna kennir Anaximander, að hitinn sé það fyrirbrigði, sem fyrst aðgreinist frá „hinu ótakmarkaða“. — Og um leið skapast andstæða hans kuldinn. Í stjörnum himinsins sjáum við glitta í frumeldinn, áleit Anaximander. Þegar frumeldurinn vermir veröld kuldans sem umlýkur hann, myndast frumþokan (hið

raka) og um leið andstæða hennar, hið þurra. Þannig skapast allir hlutir í andstæðum.

Frá „hinu ótakmarkaða“ rísa ótal veraldir, sem þó hverfa allar aftur til upphafs síns. Þannig er tilveran eilíf hringrás, knúin áfram af duldum öflum, sem jafnvel guðirnir verða að lúta.

Sem vísindamaður kenndi Anaximander, að jörðin ætti sér enga undirstöðu og væri umlukt lofti. Hins vegar hafði hann engin tök á að þekkja lögun hennar eða stöðu í geimnum. Hann taldi að hún mundi vera eins og trumba í laginu og væri miðdepill alheimsins. Ásamt vini sínum og samborgara Hekataios kortlagði Anaximander fyrstur Grikkja himin og jörð.

Hinar fyrstu lífverur urðu til í sjó. Síðar, er tímar liðu, hófu sumar tegundir þeirra landnám og aðlöguðu sig nýjum lífsskilyrðum. Þannig verður, sagði Anaximander, þróun mannsins rakin til fiska.

# Anaximenes

Anaximenes (588—524 f. K.) er ygnstur heimspekinganna þriggja í Miletos. Hann er sagður hafa verið lærisveinn Anaximanders og eins og hann skrifaði Anaximenes bók um heimspeki sína. Af henni hefur varðveitzt aðeins brot eitt.

Eins og söguritararnir halda því fram að Þales hafi kennt að „hin efnislega orsök“ tilverunnar væri vatn, eins og þeir telja að „hið ótakmarkaða“, sem Anaximander kenndi að væri upphaf tilverunnar, merki aðeins einhverja óskilgreinda efnisblöndu, eins staðhæfa þeir að Anaximenes hafi kennt að tilveran væri loft.

Algengt var, eins og fyrr er að vikið, að tala um himininn og loftið sem tákn andans. An-

aximenes notar orðið „loft“ um það sem hann telur uppistöðu og ívaf allrar tilveru. En þetta orð, „loft“, notar Anaximenes sízt af öllu í okkar efnafræðilegu merkingu. Þegar hann fullyrðir að sál mannsins sé „loft“, þá sannar það aðeins að hann notar orðið „loft“ sem tákn þess, sem menn nú almennt kalla anda. Þetta verður enn ljósara, þegar Anaximenes segir, að „loftið“ sé líf, og að það sé gætt sköpunarmætti og vitsmunum, og að það sé hinn leyndi máttur í allri tilverunni og að baki hins sýnilega. Anaximenes notar aðeins orðið „loft“ til að tákna með því logos eða heimsandann. Söguritararnir virðast því skilja Anaximenes óþarflega bókstaflega, ekki sízt þar sem sú merking orðsins loft sem þeir venjulega eigna honum var alls ekki til á hans dögum. Betur virðist landi hans og lærisveinn Díógenes frá Apolloníu á Krít hafa skilið, hvað Anaximenes átti við með „lofti“. Hann reit bókina „Um náttúruna“, sem Simplicius vitnar í, en er glötuð nú. Á þessum tilvitnunum verður þó séð, að Díógenes telur einnig að „loft“ sé upphaf allra hluta og heldur fram hinu sama og Anaximenes. Þar ber „loft“ ekki efnafræðilega merkingu heldur þýðir það hjá honum and-

ann, sem skapar allt, sem viðheldur öllu, nærir allt, einnig hugsun og líf mannsins. Í manninum er það sálin, í tilverunni allri er það heimsandinn. Um andann, sem er honum órætt hugtak, verður þó að nota eitthvert orð og orðið sem hann notar er „loft", en hann gefur því um leið þá merkingu að eftir málvenju okkar tíma er villandi að þýða það með öðru en andi. Hugtak hans felur í sér líf og vitsmuni, hugtak okkar (loft) hvorugt. Þannig bregður kenning lærisveinsins Díógenesar birtu yfir hina raunverulegu kenningu Anaximenesar. Aðeins í þessu ljósi er hægt að öðlast skilning á þeirri meginkenningu Anaximenesar, að allt sé „loft á ákveðnu þéttleikastigi": Öll tilveran sé ein heild, en hið eina birtist á mismunandi stigum (þéttleika) og þess vegna virðist okkur um heim margbreytileikans vera að ræða. — Hin raunverulega og heimspekilega ástæða til þess að Anaximenes kýs að kalla andann „loft" er sú hugmynd hans að lífið og tilveran sé eilíf hringrás, „andardráttur hins eilífa". Útöndun hins eilífa er sköpun veraldarinnar, innöndunin það að veröldin hverfur aftur til upphafs síns. Þessi andardráttur lífsins er meira en efni. Hann er

fyrst og fremst hinn innsti andi sem felur í sér orkuna og efnið, alla hina ytri tilveru, líkt og fræ, sem felur í sér alla þá eiginleika sem af því síðar vaxa. Þessi andardráttur („loftið“) er því í eðli sínu andinn sem skapar veröldina, býr í henni og heldur henni við.

Fyllsta samræmi virðist því ríkja innbyrðis milli heimspekinganna í Miletos og milli þeirra og hinna austurlenzku hugmynda, eins og eðlilegt mætti þykja. Heimspekin stekkur ekki, eins og gyðjan Pallas Aþena, fullsköpuð út úr höfði þessara manna sem taldir eru fyrstu heimspekingar Vesturlanda. Hún á sér sína fortíð, og þar hefur hún sums staðar risið jafnhátt eða hærra. Þess vegna er ástæðulaust að líta á upphaf grískrar heimspeki sem einhverja stökkbreytingu í sögu mannsandans, þar er aðeins um að ræða tiltölulega hægfara þróun menningarinnar á vesturleið. Söguritarar framtíðarinnar gerðu því rétt í að hefja heimspekisögu sína að minnsta kosti 3000 árum fyrr en nú tíðkast og hefja hana með heimspeki hinna fornu menningarþjóða austursins.

Viðfangsefni hinna fyrstu heimspekinga Grikkja var: Hvað var fyrst? Hvað er það sem

allir hlutir eru komnir frá og er í öllum hlutum, þar sem tilveran er ein heild? Hér hefur verið reynt að sýna fram á að þeir sem ritað hafa sögu heimspekinnar og fullyrða að heimspekingarnir í Miletos hafi svarað: 1) vatnið, 2) óskilgreind efnisblanda, 3) loftið, — hafi farið villir vegar og útskýrt kenningar þessara fornu heimspekinga í ljósi hugmyndakerfis, sem varð sérkennandi fyrir Vesturlönd síðari tíma, en ekki var til í tíð heimspekinganna þriggja í Miletos. Fræðimennirnir fullyrða að þessir gömlu heimspekingar séu að leita að hinni „efnislegu orsök" tilverunnar, en þeir greindu efnið alls ekki frá andanum og svara spurningunni á sama veg og hinir fornu djúphyggjumenn sem voru fræðarar þeirra: Í upphafi var andinn.

# Pyþagóras

Heimspekin átti ekki lengi griðastað í Miletos. Árið 496 f. K. lögðu Persar hana undir sig og borgin varð logum eyðileggingarinnar að bráð. Auður hennar og veldi urðu að ösku og reyk — aðeins andinn lifði, andi heimspekinga hennar, sem barst þaðan til annarra borga og landa og vakti þar þær öldur á hafi sögunnar, sem enn falla að flestum ströndum.

Anaximander, sá er virðist hafa verið fjölhæfastur og margfróðastur heimspekinganna þriggja í Miletos, dvaldist um skeið við hirð einræðiskonungsins Polykratesar á eyjunni Samos sem næst er Litlu-Asíu allra hinna grísku eyja. Polykrates gekk í bandalag við Amasis konung Egypta og drottnaði yfir hafinu. Hann safnaði að hirð sinni skáldum og vitringum. Einn þeirra var Pyþagóras.

Hinn sögulega Pyþagóras er erfitt að þekkja. Sjálfur skrifaði hann aldrei neitt, en eignaðist fjölda nemenda og stofnaði bræðralag það, sem við hann er kennt. Hvað af kenningum Pyþagóringa, eins og Aristóteles kallar þá, er komið frá meistaranum og hvað frá samverkamönnum hans og lærisveinum jafnvel eftir hans dag er erfitt að vita. — Um Pyþagóras sjálfan eru sagðar sögur þar sem hann er gerður ekki aðeins mikill vísindamaður heldur um leið meistari, sem þekkir leyndardóm hins yfirskilvitlega og gerir kraftaverk. Í þessum sögum er hann sagður hafa getað birzt samtímis á tveimur stöðum, fjarlægum hvor öðrum, og kennt lærisveinum sínum. Hann er látinn geta stjórnað villidýrum, talað við höfuðskepnurnar og hlustað á söng himnanna. — Slíkar sögur ganga ekki um hversdagsmann. Vegna hinna sérstæðu vitsmuna hans, er líklegt að honum hafi á fullorðins aldri verið gefið nafnið Pyþagóras. Það væri einkennileg tilviljun, ef þetta væri skírnarnafn hans, þar sem Pyþagóras merkir: sjáandi eða spámaður. Hafi hann fengið þetta nafn sem viðurnefni, sem líklegra verður að teljast, mætti ætla, að honum hafi þótt nafnið fullyfirlætis-

legt um þann, sem leitar hinna miklu sanninda í auðmýkt hjarta síns. Pyþagóras hefði, ef þetta er rétt athugað, þess vegna haft alveg sérstaka ástæðu til að finna upp nýtt orð til að nota um sig og sína líka. Og nú vill svo til að menn vita, að það var einmitt það, sem hann gerði. — Og hið nýja orð sem hann býr til og notar fyrstur manna er hið fræga orð fílósóf. Pyþagóras merkir sjáandi, eða sá, sem hefur öðlazt hina æðri vizku. En hvað átti meistarinn við með þessu nýja orði: fílósóf; vinur vísdómsins? — Aðeins það, að hann telur sig ekki hafa öðlazt hina æðri vizku, en borið lotningu fyrir henni og leitað allrar þekkingar: — Maður að nafni Leontíus snýr sér að Pyþagórasi og spyr: — „Hver er iðn þín?“ „Ég stunda enga iðngrein“, svaraði Pyþagóras. „Ég er fílósóf“. Leontíus hefur aldrei heyrt þetta nýja orð og innir eftir merkingu þess. Og Pyþagóras svarar: „Lífi manna má líkja við Olympíuleikana. Þangað fara sumir til að leita sér frægðar og lárviðarsveiga. Aðrir fara þangað til að kaupa og selja og afla sér fjár. Hinir þriðju leita þar hvorki frægðar né fjár. Þeir koma þangað til að njóta hins mikla leiks og kynnast öllu, sem fram fer. Við yfirgefum á

sama hátt ættland okkar, sem er himnaríki, og höldum til jarðarinnar, þar sem svo margir leita auðsins og svo fáir snúa baki við ágirnd og hégóma, til þess að reyna að skilja lífið og tilveruna“.

Pyþagóras er fæddur á eyjunni Samos einhvern tíma á árunum milli 580—570 f. K. Sagan segir, að hann hafi verið víðförull og numið leynd fræði í Egyptalandi og Babylon. Um þetta er fátt hægt að segja með vissu vegna þeirrar hulu, sem hvílir svo víða yfir ævi Pyþagórasar. Til að kynnast austurlenzkum fræðum hefði honum þó jafnvel ekki verið nauðsynlegt að yfirgefa heimaland sitt. Samos stóð í hans tíð í nánu sambandi við Egyptaland, Krít og Miletos og þau aftur við allan hinn austræna heim.

Árið 529 f. K. fór Pyþagóras til grísku nýlendnanna í Suður-Ítalíu og settist að í Krótóna í Tarentum. Þar með nam heimspekin land í vestri. Í Krótóna stofnaði Pyþagóras bræðralag, sem hafði það að markmiði að kanna lögmál tilverunnar og lyfta manninum á hærra stig. Þessir menn lögðu stund á stjórnmál, stærðfræði, tónfræði og stjörnufræði, og gerðu merkar uppgötvanir í öllum þessum fræðum.

Auk þess lögðu þeir rækt við listir og listiðnað. Siðfræði Pyþagórasar var undarlega lík siðfræði Búddismans: 1) Hann bannaði nemendum sínum að neyta fæðu úr dýraríkinu. 2) Blóðfórnir voru stranglega forboðnar og fordæmdar. 3) Hann kenndi, að eins og maðurinn sáði svo mundi hann og uppskera og að maðurinn væri háður hjóli endurfæðinga og fæddist oft inn í þennan heim áður en sálin næði fullkomnun. 4) Hann kenndi nemendum sínum að stunda réttlæti, vera sannorða og virða sannindi, vera trúa yfir því sem þeim var falið og sýna öllum mönnum góðvild. 5) Hann lagði sérstaka áherzlu á hugleiðslu og sjálfskönnun. Allt þetta á Pyþagóras sameiginlegt Búddisma — og þar sem Pyþagóras og Búdda merkja næstum hið sama hallast sumir að því, að Pyþagóras hafi komizt í allnáin kynni við indversk fræði. Pyþagóras var næstum jafnaldri Búdda. Lao Tze, sem merkir mjög hið sama og orðin Búdda og Pyþagóras, kemur fram í Kína skömmu síðar, og með svipaðar kenningar, og öld þeirra er einn af hátindunum í andlegu lífi mannkynsins. Pyþagóras kvað það köllun sína að koma til „hins mikla leiks“ og kynnast öllu og vita það sem fram

fer á sviðinu. Mundi ekki einmitt slíkum manni trúandi til að þekkja fortíðina og sína eigin samtíð, ekki aðeins hvað snertir trúarhugmyndir lærifööður síns Ferekydesar og launhelgar Apollos á Krít, heldur einnig heimspeki og vísindi fjarlægari staða, Egyptalands, Babyloníu og Indlands?

Pyþagóras kenndi nemendum sínum að stjórna sjálfum sér til þess að þeir síðar yrðu hæfir til að hafa mannaforráð. Hann kenndi þeim dulræna lífsspeki og loks vísindi. Slíkur félagsskapur varð stjórnarvöldunum brátt þyrnir í augum, ekki sízt þar sem útbreiðsla hans var mjög ör. Auðugir alþýðuforingjar æstu lýðinn upp gegn þessum tortryggilegu og óvenjulegu mönnum og ofsóknir hófust gegn þeim. Pyþagóras komst undan á flótta til Metapontum, þar sem hann lézt meðal lærisveina sinna aldamótaárið 500 f. K. Félagsskapurinn var upprættur og þeir líflátnir sem til náðist. Sumum tókst þó að flýja land og komast undan til Grikklands, þar sem þeir ræddu kenningar sínar við heimspekinga föðurlands síns, einkum Sókrates, sem gerðist hinn nýi foringi þeirra.

Hina dulrænu lífsspeki meistarans Pyþagor-

asar hefur efalaust verið erfitt að kenna. Hún byggist jafnan á innri reynslu og andlegri sýn sem opnast innan frá, en verður ekki lærð utan að. Þessi lífsspeki hefur varpað töfrum á persónu Pyþagórasar meðan hann lifði og sveipað hann helgiljóma eftir hans dag í vitund lærisveinanna. En lífsspeki hans varð um leið háð skilningi þeirra og hugarflugi og hjá sumum ummyndaðist hún í kukl eitt og hindurvitni. Fyrst þegar hún náði til Sókratesar og Platós, sem báðir höfðu náin kynni af sumum beztu lærisveinum Pyþagórasar, hitti hún fyrir skyldar sálir, þar sem hún féll í góðan jarðveg og bar ríkulegan ávöxt.

Vísindi Pyþagórasar aftur á móti kröfðust aðeins greindar og skynsemi af lærisveinum hans. Þau varð auðveldara að nema, varðveita og auka. Þess vegna báru þau er tímar liðu mestan ávöxt, og urðu höfuðviðfangsefni þeirra er síðar kenndu sig við nafn Pyþagórasar.

Í heimspeki sinni heldur Pyþagóras áfram þar sem heimspekingarnir í Miletos hætta. Hann tók sér fyrir hendur að kanna „andann í efninu", hvernig andinn stjórnar efninu og skapar hina lögbundnu skipan veraldarinnar, rétt

hlutföll og samræmi milli allra hluta. Skylt er að geta þess, að hinir sömu söguritarar, sem fullyrða að heimspekingarnir í Miletos, þar á meðal Anaximander, lærifaðir Pyþagórasar, hafi kennt að efnið væri upphaf tilverunnar, halda einnig fram í samræmi við það, að kenning Pyþagórasar og Anaximanders séu hrein andstæða. — Það mundi og vera, ef Anaximander hefði nokkurn tíma kennt, að efnið væri upphaf tilverunnar. En einmitt það að Pyþagóras, lærisveinn Anaximanders, telur það fráleitt, er enn ein stoð til viðbótar undir þá skoðun að heimspekingarnir í Miletos hafi verið misskildir af fræðimönnunum, eins og fyrr er sagt. Það er því alls ekki líklegt að hér sé um neinn þverbrest að ræða milli lærisveins og lærföður. Pyþagóras heldur aðeins áfram þar sem Anaximander hættir, en á sömu braut. Viðfangsefni Anaximanders var að skýra, hvernig hin sýnilega veröld skapast úr „hinu ótakmarkaða". Lausn hans var sú, að veröldin skapist í andstæðum. Pyþagóras kennir einnig, að „hið ótakmarkaða" sé upphaflegra en hið takmarkaða, og að hin ytri veröld sé frá því runnin. Hann er einnig sammála Anaximander um, að veröldin hafi skap-

azt í andstæðum. Hann tengir þá hugmynd í kerfi og telur upp tug höfuðandstæðna í tilverunni: 1) Hið ótakmarkaða og hið takmarkaða. 2) Hið staka og hið jafna. 3) Eining og fjöldi. 4) Hægri og vinstri. 5) Karlkyn og kvenkyn. 6) Kyrrstaða og hreyfing. 7) Beint og bogið. 8) ljós og myrkur. 9) Gott og illt. 10) Ferhyrningur og þríhyrningur.

Hlutverk Pyþagorasar var að kanna samræmi allra þessara andstæðna og lögmálin, sem því valda. Hann verður stærðfræðingur og dulspekingur jöfnum höndum. Stærðfræðingurinn mælir stærðir og hlutföll. Dulspekingurinn leitar hins algilda, hins rauða, leynda þráðar, sem tengir allt og samræmir. Hið algilda er ekki hin ytri veröld, — og þó er það í hinni ytri veröld og skapar hana. Pyþagóras leitaði að tákni, sem fæli í sér þennan anda að baki hlutanna og um leið hlutina sjálfa eins og hann skapar þá, og sem einnig mætti nota um samræmið milli hins skapaða innbyrðis, t. d. hlutfallið milli tóns og strengs. Táknið, sem Pyþagóras fann, var „talan“: Allt í tilverunni eru „tölur“, kenndi hann. Þetta er okkur óskiljanlegt, nema með því að vita hvað Pyþa-

góras á við með „tölu“. — Talan (1, 2, 3 o. s. frv.) er ákveðinn fjöldi eða stærð. Þess vegna er hún hið takmarkaða. Hið takmarkaða er mynd og eiginleiki hins ótakmarkaða. Þannig verður heimur okkar til. Samnefnari allra „talna“ er sú heild, þar sem allar andstæður sameinast; hið ótakmarkaða; guðdómurinn; andinn. Frá þessum guðdómi eða allsherjaranda eru „tölurnar“ komnar og hafa skapað hliðstæðu sína í veröld okkar. „Tölur“ Pyþagórasar tákna því „sál hlutanna“. Þegar Plató síðar talar um, að allt í veröld okkar sé skuggi eða eftirlíking hins innri veruleika; „Frummyndanna“, þá er hann aðeins að útskýra þessa kenningu Pyþagórasar á ljósari og stórbrotnari hátt en nokkur þeirra lærisveina, sem gengið hafa í smiðju Pyþagórasar.

Þannig liggja þræðirnir frá hugmyndum hinna fornu menningarþjóða til heimspekinganna í Miletos, Pyþagóringa, Sókratesar og Platós í hinum vestræna heimi. En hvar hófst þá heimspekin? Látum þá lærðu deila um upphaf hringsins! Veruleikinn á sér ekki upphaf, ekki heldur andinn eða neitt það, sem hans er. Hið tæra vatn hans sprettur fram á öllum

tímum úr hugardjúpum hinna miklu sjáenda. En þetta vatn verður þeim mun gruggugra eftir því sem það streymir lengur fram um urðir tungumálanna og fúamýrar hinnar fræðilegu skynsemi.

# Xenófanes

Heimspekingarnir Xenófanes, Parmenides og Zenó, eru kenndir við hina grísku nýlendu Elea á Suður-Ítalíu.

Xenófanes er fæddur um 620 f. K. í Kólófón í Litlu-Asíu. Hann var farandskáld, örsnauður alla ævi. Hann barðist við Persa í æsku, flakkaði síðan um Grikkland og söng ljóð sín, og loks settist hann að í Elea, að því er margir telja. Sókrates var ákærður fyrir að trúa ekki á hina gömlu guði. Anaxagóras flæmdist í útlegð m. a. vegna sömu ákæru. En skáldið Xenófanes, sem fyrstur réðst gegn hinum gömlu guðum Hómers, varð hundrað ára. Xenófanes er ekki venjulegur heimspekingur, heldur innblásið skáld og spámaður, sem lítur upp í óravíddir himinsins og mælir fram: Allt

þetta er guð, guð er einn, og hið eina er guð. Hvaðan kom tilveran? Hún kom frá sjálfri sér. Hún er eilíf og óumbreytanleg, án upphafs og enda. Og skáldið beinir geiri sínum gegn hinum rétttrúuðu löndum sínum, sem skópu sér guð í sinni mynd. Skáldið segir: Heimskir menn hyggja, að guðirnir séu í mannsmynd bornir, klæðist þeirra klæðum og tali þeirra tungu. Ef uxarnir og ljónin hefðu hendur okkar og fingur, mundu einnig þau meitla og mála guðamyndir sínar í eigin líki. Xenófanes er eins og fyrr segir uppi fyrir daga Sókratesar. En í bók Platós, „Ríkið", má m. a. sjá, hvaða spor kvæði Xenófanesar um hinn eina guð hafa skilið eftir, og hin miklu áhrif, sem þau hafa haft á Parmenides.

# Parmenides

Einn þeirra, sem hlustuðu á ljóð Xenófanesar, var Parmenides í Elea, sem síðar átti eftir að færa þau í heimspekilegan búning. Kenningar Xenófanesar eru þó ekki eina stoðin, sem heimspeki hans byggist á. Parmenides var lærisveinn Pyþagóringsins Ameinias og reisti altari til minningar um hann látinn. Parmenides var fæddur í Elea nokkru fyrir aldamótin 500 f. K. Hann var borinn til auðs og valda, en kaus heldur að gera ferð sína á fund vizkugyðjunnar og átti ekki afturkvæmt til hins veraldlega hégóma. Þessa líkingu notar Parmenides í kvæði um heimspeki sína: Heimspekingurinn ekur vagni sínum með sóldísunum út úr ríki næturinnar og inn í ríki dagsins. Vizkugyðjan fagnar honum vel og tekur

að skýra honum frá vegunum tveimur, vegi sannleikans og vegi blekkinganna. Og nú greinist kvæðið eins og vegirnir. Fyrri hluti þess fjallar um veg sannleikans, hinn síðari um veg blekkinganna. Með þessu vill Parmenides draga skarpa línu milli hughrifa og hugsana, sem byggjast á skynfærunum (vegur blekkinganna), og hins raunverulega og sanna, sem Parmenides taldi að skilningurinn gæti þekkt (vegur sannleikans). Tilveran í sínu rétta eðli birtist Parmenidesi sem alger mótsögn við þann heim, sem við skynjum. Skynjunin er takmörkuð, og okkur virðist allt hljóta að eiga sér upphaf og endi. Skilningurinn, segir Parmenides, sýnir okkur, að tilveran getur hvorki átt upphaf né endi. Þá, sem halda, að tilveran hafi byrjað, spyr, Parmenides: Kom hún frá því sem er, eða því, sem er ekki? — „Frá því, sem er", svöruðu flestir. Þá hefur tilveran komið frá tilverunni. Það er aðeins um framhald á tilverunni að ræða, en ekki upphaf. Tilveran hlýtur því að vera upphafslaus, — eilíf. Ef einhver svaraði: „Tilveran kom frá því, sem ekki er", anzaði Parmenides: Það sem ekki er, er ekki til! Geta allir

hlutir skapazt úr engu? Slíkt er óhugsandi, því að það getur ekkert skapazt úr engu.

Skynfærin segja okkur, að allt sé breytingum háð. Skilningurinn, segir Parmenides, sýnir okkur, að tilveran hlýtur að vera óumbreytanleg. Ef eitthvað, sem er, gæti breytzt eða liðið undir lok, hlyti það annað hvort að hverfa til „verunnar“ eða „ekki-verunnar“. Hyrfi það til verunnar, héldi það áfram að vera til og breytingin því engin. Að eitthvað, sem er, geti orðið að engu, er jafnóhugsandi og að eitthvað geti skapazt úr engu.

Skynfærin segja okkur, að flest eða allt sé á hreyfingu. Skilningurinn, segir Parmenides, sýnir okkur, að tilveran hlýtur að standa kyrr og að hreyfing er óhugsandi: Án rúms getur engin hreyfing verið til, og öll hreyfing hlyti að fara fram í rúmi. Ef rúm er ekki til, getur því ekki verið um neina hreyfingu að ræða. En ef rúm er til, þá er það tilveran. Að segja, að eitthvað, sem er, hreyfist í tilverunni, er sama og að segja, að tilveran hreyfist í tilverunni, sem þýðir, að tilveran stendur kyrr.

Skynfærin sýna okkur tilveruna alla í brotum. Skilningurinn, segir Parmenides, sýnir

okkur, að tilveran er ein órofa heild. Það getur ekki verið nein eyða eða tómarúm í tilverunni, því að sú eyða hlyti annaðhvort að vera það, sem er, eða það, sem er ekki. Ef hún er til, þá er hún tilvera, og ekki er hægt að rjúfa tilveru með tilveru. Ef eyðan er ekki, hvernig getur þá það, sem ekki er til, rofið tilveruna?

Skynfærin sýna okkur heiminn í takmarkaðri mynd. Skilningurinn segir okkur, að tilveran sé ótakmarkanleg. Tilveran gæti ekki takmarkazt af því, sem ekki er til, og að segja, að hún takmarkist af annarri eða þriðju tilverunni, er ástæðulaus deiling á því, sem í eðli sínu er eitt.

Loks kenndi Parmenides, að hugsunin og tilveran væri eitt, eins og eðlilegt er, þar sem hann gerir ráð fyrir, að hugsunin geti þekkt tilveruna.

Af þessu, sem hér hefur verið sagt, er ljóst, að Parmenides er með þessu ekki að ræða hina venjulegu tilveru skynfæranna, heldur hina yfirskilvitlegu tilveru. Heimspeki hans er því ekki tómur orðhengilsháttur, eins og Bertrand Russell virðist álíta, heldur miklu fremur hin fyrsta alvarlega tilraun vestrænn-

ar heimspeki til að greina milli hins sýnilega heims skynfæranna og hins „absoluta“ að baki hans.

Í síðari hluta kvæðis síns ræðir Parmenides um „veg skoðananna“, sem er heimsmynd skynfæranna. Er þar um að ræða heimsmynd Pyþagóringa fyrst og fremst. En þar sem þessi heimsmynd byggist á skynjun, hefur hún lítið gildi fyrir Parmenides sjálfan. Hún er aðeins skoðun eða kenningar, en ekki sönn þekking, „hrævareldar, sem glampa um nótt“, en ekki ljós hins sanna veruleika.

Plató lætur Sókrates ræða um heimspeki við Parmenides í Aþenu. Telja sumir, að Parmenides hafi komið til Aþenu skömmu eftir 450 f. K. Öruggar heimildir eru ekki til um fund þessara manna, en áhrif Parmenidesar á Sókrates og platóniska heimspeki eru augljós og óafmáanleg: Kenning Pyþagóringa og heimspeki Parmenidesar eru grundvöllur hinnar hugrænu heimspeki Sókratesar og Platós og greiningar þeirra milli hins sýnilega heims og heims „Frummyndanna“ að baki hans.

# Zenó

Nánasti lærisveinn Parmenidesar í Elea var Zenó (uppi um 490—430 f. K.). Zenó kemur ekki fram með neina sjálfstæða heimspeki, en hann gerðist stríðsmaður heimspekiskólans í Elea, sem átti mjög í vök að verjast. Um fertugt virðist Zenó hafa haldið innreið sína á Agóru stórtorgið í Aþenu, vígvöll heimspekinnar, í fylgd með meistara sínum.

Ekki skildu Aþeningar þá mun hins yfirskilvitlega og hins sýnilega, og Zenó varð brátt skotmark allra háðfugla borgarinnar fyrir þá kenningu, að tilveran stæði kyrr. En Zenó var stríðsmaður, og stríðsmenn berjast vegna íþróttarinnar til sigurs eða til falls. Tvennt var augljóst: Hann varð að heyja stríðið á þeirra eigin vígstöðvum, — halda sér við þá

sýnilegu og áþreifanlegu tilveru og byggja röksemdaflækjur sínar á grundvelli hennar. Hitt var honum ljóst, að ef hann átti að vinna þetta stríð og verða ekki undir í hávaða torgsins, varð hann að finna upp nýja bardagaaðferð. Og þá varð „dialektikin“ til. „Dialektikin“, sem líklegt er að Zenó hafi fundið upp á Agóru í viðureign sinni við Aþeninga, var ákveðin aðferð í kappræðum. Þessi aðferð var fólgin í spurningum og svörum. Annar spurði og leiddi samræðurnar og jafnan að fyrir fram ákveðnu marki. Hinn varð að svara spurningunum eftir ákveðnum reglum. Hann varð að svara í sem fæstum orðum, annaðhvort játandi eða neitandi. Hann má ekki koma fram með neinar athugasemdir í svari sínu og ekki heldur gagnrýna spurninguna né svara með gagnspurningu. „Dialektikin“ átti fyrir höndum langa sögu, og á bernskuskeiði sínu í Aþenu virðist hún brátt hafa orðið tízka, sem olli tímamótum í framsetningu. Sófistarnir tileinkuðu sér hana og notuðu hana oft til að snúa hlutunum við með orðhengilshætti og hártogunum og láta hið ranga sýnast rétt. En Sókrates tileinkaði sér hana einnig og fannst hún hæfust til að skýra viðfangsefnið og leiða sannleikann í

ljós. Í öllum bókum Platós er þessi aðferð notuð og ótal ritum öðrum eftir hans dag.

Þessu nýja vopni beitti Zenó af leikni og harðfylgi, og hallaðist nú fremur á þá, sem haft höfðu heimspeki Parmenidesar að athlægi. Zenó sýndi fram á ógöngur þeirra, sem héldu því fram, að tilveran væri ekki eitt, heldur margt: Ef tilveran er veröld margbreytileikans, eins og hinir vísu borgarar í Aþenu halda, hlýtur hún þá ekki að vera samansett úr mörgum einstökum hlutum?

Ef nú tilveran er sett saman úr mörgum hlutum, þá er hægt að deila þessum hlutum óendanlega, þannig að hver hluti hennar verður óendanlega lítill. Þótt allir þessir óendanlega litlu hlutir séu lagðir saman, verður tilveran samt óendanlega lítil, vegna þess að þótt við margföldum hið óendanlega litla með hinu óendanlega marga, þá verður útkoman samt hin sama, óendanlega lítið! En með þessu er ekki nema hálfsögð saga. Ef tilveran er deilanleg og margbreytileg, hlýtur hún einnig að vera óendanlega stór, vegna þess að við hvern hluta hennar er alltaf hægt að bæta öðrum í það óendanlega. Þannig setti Zenó Aþeninga í vandræði með að skýra, hvernig sama tilveran

gæti verið óendanlega smá og óendanlega stór! Þetta sannar, sagði Zenó, að tilveran er ódeilanleg og ekki sett saman úr mörgum hlutum, heldur er hún eitt.

Svipuð vandræði setti hann Aþeninga í með að skýra, hvernig hreyfing gæti átt sér stað rökfræðilega séð: Ör er skotið að marki. Skynjunin segir okkur, að örin hreyfist. En leiðin frá boganum til marksins er samsett af óendanlega mörgum punktum, sem hafa ekkert rúmtak og standa kyrrir. Hvar sem er á leiðinni til marksins hvílir örin því á punktum, sem standa kyrrir, örin, sem hvílir á kyrrstæðum punktum, hlýtur einnig að standa kyrr, þar er hreyfing hennar 0. Þótt óendanlega mörg núll væru lögð saman (hinar ýmsu stöður örvarinnar frá boganum til marksins), yrði útkoman samt núll! — Þannig, segir Zenó, sýnir skilningurinn okkur, að örin getur ekki hreyfzt, að hreyfingin sé skynvilla. — Auðvitað á nútíma stærðfræði auðvelt með að leiðrétta þetta og önnur dæmi Zenós um, að rökfræðilega standi hlutirnir kyrrir. Hinu er ástæðulaust að gleyma, að upphaflega vísar þessi heimspeki hjá Parmenidesi, meistara Zenós, til hins yfirskilvitlega, tilverunnar eins

og hún er í hinu rétta eðli sínu, óháð blekkingu skynfæranna. Að beita nútíma stærðfræði til að sanna nokkuð eða afsanna um heim hins yfirskilvitlega er vísindalegur barnaskapur.

Vafalaust er, að Sókrates hefur orðið fyrir miklum áhrifum frá Zenó. Líklegt er, að sennur Zenós á Agóru hafi styrkt Sókrates í þeirri trú, að stærðfræði og „náttúruvísindi“ leysa ekki lífsgátuna. Það, sem Sókrates er látinn segja í Phaidon um eindina og stærðfræði, bendir ótvírætt til þess vandamáls, sem Zenó glímdi lengst við. Það, sem Sókrates lærir þó einkum af Zenó, var samræðulistin, „hin dialektiska aðferð“, sem áður er að vikið. — Og loks urðu endalok Zenós og Sókratesar lík. — Zenó fór aftur frá Aþenu til Elea. Það síðasta, sem Sókrates hefur frétt um þannan stríðsmann orðsins, var, að hann hélt fræga varnarræðu gegn valdstjórninni í Elea, missti síðan tungu sína og var píndur til dauða.

# Herakleitos

Heimspekingarnir í Elea kenndu, að tilveran væri óumbreytanleg og hreyfing ekki til. Hin eðlilega andstæða þessarar heimspeki er að sýna fram á, að sú „vera“ (hér í merkingunni fyrirbrigði), sem á sér hvorki hreyfingu né neinar breytingar, sé sama og „ekki-veran“ (í merkingunni enginn hlutur, ekkert fyrirbrigði). Með öðrum orðum: „veran“ (sem óhreyfanlegur og óumbreytilegur veruleiki) sé ekki til, aðeins breytingin sjálf eða hreyfingin og andinn, sm henni stjórnar. Tilveran er eilífur straumur hinnar miklu elfu.

Herakleitos boðaði þessa heimspeki snemma á 5. öldinni fyrir Krists burð. Hann var kominn af tignustu ættum Efesos og borinn til mannaforráða. En Herakleitos þessi var heim-

spekingur, sem leit smáum augum á veraldarprjálið. Hann hafnaði stöðu þjóðhöfðingjans og eftirlét völdin yngri bróður sínum: Hvað er auður og völd annað en töðumeis gripsins? Auðvitað munu asnarnir jafnan fremur vilja hey en gull! En Herakleitos leitaði gullsins þess gulls, er sálin safnar í hirzlur sínar og ekki verður frá manninum tekið, hvorki í lífi né dauða. Hinn andlega fjársjóð Herakleitos-ar er erfitt að kanna, og liggja til þess ýmsar orsakir: Til eru aðeins brot af ritsmíð hans um náttúruna. Og þó að þau séu að vísu allmörg, nægja þau tæplega til að sýna örugga mynd hinnar upphaflegu heimspeki hans.

Auk þess talaði Herakleitos hinu trúarlega máli launhelganna og í spámannlegum líking-um eins og véfrétt. Hann skrifar greinilega ekki fyrir almúgann og eins og forðast að láta hann skilja sig. Þess vegna er hann af ráðn-um hug myrkur í máli. Líkast er því, sem hann tali til örfárra innvígðra heimspekinga, sem opinberaður hefur verið djúpstæður leyndardómur. Jafnvel fornöldin kallaði Hera-kleitos „hinn myrka“. — Diogenes Laertíus segir hann hafa með vilja hagrætt orðum sín-um þannig, að aðeins „hinir lærðu“ gætu skil-

ið. Þetta er rétt að hafa hugfast og trúa ekki að óathuguðu máli skýringum þeirra fræðimanna, sem segja, að Herakleitos hafi kennt, að tilveran væri eldur — í efnafræðilegri merkingu. Greinilegt er, að Sókrates er að velta fyrir sér heimspeki Herakleitosar, þegar hann í æsku sinni spyr, hvort það, sem við hugsum með, sé eldur. Það er rétt, að Herakleitos segir, að allt sé „eldur“ á ákveðnu stigi. En við hvað á „hinn myrki“ heimspekingur?

Eins og heimspekingarnir í Miletos kennir Herakleitos, að öll tilveran sé af einni rót og að þetta eina sé öll tilveran. Þetta eina kallar Herakleitos „eld“. Áður en lengra er haldið, er rétt að reyna að gera sér grein fyrir, úr hvaða jarðvegi þessi kenning Herakleitosar er vaxin, en miða ekki við sjónarmið og vísindi, sem fram komu eftir hans dag.

Næsta nágrenni Herakleitosar í menningarlegu tilliti var Persía. Að vísu virðist Herakleitos hafa haft lítið dálæti á Persum og vísaði t. d. heimboði Persakonungs á bug með fyrirlitningarorðum um hégóma hirðlífsins. En trú og lífsskoðun Persa hefur honum verið vel kunn. Og í Persíu trúðu menn á eldinn. Zaraþústra notaði eldinn sem tákn hins guðlega

anda, sem heiminn skapar. Herakleitos vissi, að „hinir lærðu“ notuðu eldinn til að tákna með tvennt: Loginn táknaði hinn sýnilega heim breytinganna. Orka eldsins táknaði hinn himneska eld: andann. Austan Persíu tekur Indland við. Það er alls ekki ósennilegt, að Herakleitos hafi haft spurnir af kenningum Gautama Búdda, sem heldur sínar fyrstu ræður eftir „uppljómun“ sína um svipað leyti og Herakleitos fæddist.

Í þessum ræðum sínum leggur Búdda áherzlu á fallvaltleikann og hina eilífu breytingu allra hluta, og hann táknar þessa breytingu með eldinum. Og þó að við förum austur að endimörkum hins forna menningarheims, Kína, þá hittum við einnig þar fyrir svipaða heimspeki og birtist á blöðum Herakleitosar: Á sama hátt og við kynnumst Sókratesi bezt í ritum Platós, eins kynnumst við bezt kenningum Lao Tze í ritum mesta lærisveins hans, Chuangtzu, þó að hann sé uppi nokkru síðar en meistari hans og Herakleitos. Chuangtzu og Herakleitos eru sammála um furðu margt: 1) Þeir hafa svipaðar skoðanir um Logos og heimssamræmið. 2) Þeir kenna báðir, að skynfærin geti ekki aflað hinnar sönnu þekkingar.

Hvorugur efast þó um, að sönn þekking sé til og hægt sé að öðlast hana. 3) Þeir eru báðir sammála um, að tilveran sé öll andstæður, sem þó mynda einingu og heild. 4) Þeir kenna báðir, að tilveran sé af einni rót. Chuangtzu kallar þetta eina „taó“ — Herakleitos „eld“. Af þessu öllu má fá nokkra hugmynd um, hvað „þeir lærðu“ á öld Herakleitosar hafa átt við með hinu heimspekilega hugtaki sínu „eldur“.

Margir sagnfræðingar hafa haldið því fram, að Herakleitos hafi kennt, að tilveran væri eldur í efnafræðilegri merkingu eða — eins og vísindamaður okkar tíma mundi segja — súrefni eða bruni. En hvernig getur „eldur“ Herakleitosar verið sama hugtak eða borið sömu eða jafnvel svipaða merkingu og það, sem nú á dögum er kallað bruni? Eldur, súrefni eða bruni er hjá okkur „fysiskt“ hugtak. „Eldur“ í heimspeki Herakleitosar táknar ekki aðeins efnisheiminn, hjá honum táknar orðið einnig heimsandann, sem sagður er æðri mannlegum vitsmunum. „Eldur“ táknar þannig einnig alheimslega vitsmuni. „Eldur“ Herakleitosar er líka mannssálin. — Og Herakleitos notar þessi orð, sál og eldur, jöfnum höndum um hið sama. — Og eiginleikar mannssálarinnar eru

sagðir hugsun og vitsmunir. Þannig er hugsun og vitsmunir einnig fólgið í hugtaki Herakleitosar, — „eldur“. Ljóst virðist af þessu, að ekkert er fjær sanni en að hugtak Herakleitosar „eldur“ sé hið sama og það, sem á okkar tíð er kallað eldur, súrefni eða bruni.

Það, sem Herakleitos reynir að tákna með þessu eina orði, er efni, orka og andi — og um leið hin eilífa framvinda tilverunnar og afturhvarf, sköpun og eyðing. Þannig táknar eldurinn efnisheiminn, þar sem allt kemur og fer, vegna þess að hann er síkvikur og aldrei hinn sami. Eldurinn táknar heimsorkuna, vegna þess að hann veldur hreyfingunni. Hann táknar andann, vegna þess að andinn er orka og efni og um leið orsök þeirra. — Hinn „torskildi“ heimspekingur hefur rennt á gömlum miðum, þegar öllu er á botninn hvolft. Spámaðurinn Herakleitos, sem talar máli véfréttar, flytur enn hið forna orð: Í upphafi var andinn. Hann verður að orku og efni. Síðan snýr straumurinn við og leitar til upphafs síns.

Ef þessu ljósi er brugðið yfir kenningar Herakleitosar, er hægt að skýra margt, sem annars yrði myrkri hulið og hljómaði jafnvel sem hrein fjarstæða. Ég nefni sem dæmi setn-

ingar eins og: „Það er dauði sálarinnar að verða vatn“. „Hin þurra sál er hin vitrasta og bezta“. Við hvað getur heimspekingurinn átt? — Í sambandi við „strauminn niður“ kennir Herakleitos, að „frumeldurinn“ (andinn) breytist í loft, loftið aftur í vatn og vatnið í jarðarefni. En jörðin (efnið), sem „eldurinn“ (andinn) skóp, felur í sér eldinn. Hann er aðeins drepinn í dróma í efninu. Þess vegna hefst aftur þróunin upp á við, sem á máli Herakleitosar er: jörð — vatn — loft — eldur. Greinilegt er, að hjá Herakleitosi er þróunin upp á við andleg þróun og þróun formsins, þannig að upp af jörðinni vex jurtaríkið. Upp af jurtaríkinu þróast dýraríkið. Upp af dýraríkinu maðurinn. „Leiðin niður er hin sama og leiðin upp“. Þ. e. a. s. „eldur — loft — vatn — jörð er hliðstætt jörð — jurt — dýr — maður.

Þróun, segir Herakleitos, er breyting frá „frjóanga vatnsins“ (air) til hins þurra lofts (eter). Eins og loft er bæði air og eter, eins er í manninum hin æðri og lægri náttúra. Stigið fyrir neðan loft er vatn. Stigið fyrir neðan mann og dýr er jurtaríkið. „Það er dauði sálarinnar að verða vatn“. „Hin þurrasta

sál er hin vitrasta og bezta". Á líkingamáli Herakleitosar þýðir þetta, að það sé dauði sálarinnar að falla aftur á bak í þróuninni niður á stig jurtaríkisins, því að þar er aðeins um hópvitund að ræða, en ekki vitsmuni og hugsun, sem eru einkenni sálarinnar. Það er takmark mannsins að hefja sig upp á stig „eldsins", sem Herakleitos kallar stundum einnig „heitt og þurrt loft". Sá „eldur", sem drepinn var í dróma jarðarinnar, á að leysast úr læðingi á ný í mannssálinni, og þar með er fullkomnun náð, þegar sálin kemst heim til „frumeldsins", hins alheimslega anda, guðs.

Skylt er að geta þess, að það, sem hér hefur verið sagt um kenningar Herakleitosar um „eldinn", er ósamhljóða áliti ýmsra hinna hæfustu fræðimanna. Þeir líta svo á, að Herakleitos hafi átt við eld í hinni venjulegu efnafræðilegu merkingu okkar tíma. Að sjálfsögðu er hinum lærðu mönnum ljóst, að á öld Herakleitosar var ekki einu sinni til á grískri tungu neitt fræðilegt orð um efni, svo fjarlæg var „efnishyggjan" á þeirri öld. Herakleitos er því í augum þessara fræðimanna, án þess að vita það sjálfur, aðeins barnalegur efnishyggjumað-

ur, sem varði ævi sinni í að móta og boða kenningu, sem hann sjálfur skildi ekki!

Herakleitos kennir, að tilveran sé óstöðvandi straumur hinnar eilífu elfu. En lygn er sá straumur ekki. Tilveran byltist áfram í látlausri baráttu andstæðra afla. Án baráttunnar og andstæðnanna yrði „veran“ „ekki-veran“. Andstæður fylgjast alls staðar að: Það er engin sköpun til án eyðingar. Það fæðist ekkert án þess að deyja um leið. Ekkert deyr án þess að fæðast. Kyrrstaðan væri dauði, en lífið er barátta. Baráttan er upphaf alls. Andstæðurnar, sem baráttunni valda, eru ekki aðeins óaðskiljanlegar, heldur breytast þær beinlínis hvor í aðra, t. d. líf í dauða og dauði í líf. Fróðlegt er að bera þessa kenningu Herakleitosar um andstæðurnar saman við kenningar hans um „eldinn“: Allt breytist í andstæðu sína. Andstæða efnisins er að sjálfsögðu andinn. Og þessa andstæðu efnisins kallar Herakleitos „eld“. „Eldurinn“ (sem samkvæmt þessari kenningu um andstæðurnar getur ekki þýtt annað en það, sem við köllum anda) breytist í andstæðu sína jörð (efni) og jörð aftur í andstæðu sína „eld“. Ef „eldur“ á máli

Herakleitosar þýddi efni, þá hlyti efni að breytast í efni, en það er brot á kenningu hans um andstæðurnar.

Ef aftur á móti „eldur" er notaður sem tákn andans, þá er þetta allt augljóslega í fyllsta samræmi hvað við annað og hugsað niður í kjölinn, og einmitt það er einkenni heimspekings. Af þessu sést, svo að varla er um að villast, að Herakleitos setur „eldinn" fram sem höfuð-andstæðu jarðefnisins. Hugtak hans „eldur" er því eins langt frá jarðarefninu eins og framast er hægt. Grundvallarhugtak Herakleitosar getur því tæplega verið annað en andinn. Og það er einmitt þessi alheimslegi andi allrar sköpunar, sem Herakleitos kallar logos. Hann einn stendur stöðugur í veröld hverfulleikans. Hann er vitið í og að baki tilverunnar, sem stjórnar öllu gegnum allt með óhagganlegum lögmálum sínum. Ef þessu væri ekki þannig farið, mundi hreyfingin leiða til óskapnaðar. En vegna þess að hreyfingunni er stjórnað af alheimslegum vitsmunum, logos, ríkir í þess stað heimssamræmi, jafnvægi og fegurð. Sál mannsins er neisti þessa heimsanda og getur aðeins lifað vegna tengsla sinna við þessa uppsprettu sína og alls lífs.

Herakleitos hefur haft mikil áhrif á vestræna hugsun eftir sinn dag. Hann lézt um svipað leyti og Sókrates fæddist, en áhrif hans á Sókrates og Plató eru auðsæ: 1) Þegar Sókrates í Phaidon ræðir um, að sálin sé ódauðleg, notar hann m. a. kenningar Herakleitosar um, að andstæðurnar hverfi hvor í aðra, því til sönnunar: Lífið breytist í andstæðu sína, dauðann. Eins hlýtur dauðinn að hverfa til andstæðu sinnar, lífsins. 2) Sókrates og Plató eru sammála um, að veröld skynjunarinnar sé háð sífelldum breytingum. Hins vegar eru þeir sammála Parmenidesi um að heimur Frummyndanna sé óumbreytanlegur. Þess vegna deila þeir á suma lærisveina Herakleitosar, sem drógu þá ályktun af kenningu hans um hina eilífu breytingu tilverunnar, að sönn þekking sé óhugsandi. 3) Hjá Herakleitosi kemur orðið logos fyrst fram í grísku og merkir hjá honum: guðlegur sköpunarmáttur og vizka. Frá honum berst logos-hugtakið til Sókratesar og Platós, og í heimspeki þeirra hefur það svipaða merkingu: Guðdómurinn, sem stendur að baki hins margbreytilega, en samræmda heims. 4) Loks er Plató greinilega á sömu braut og Herakleitos, þegar hann í Phai-

don lýsir því, hvernig breytni manna í lífinu og öflun menntunar ráði heimkynnum manna annars heims. Herakleitos, sem jafnan virðist hafa staðið á sama um, hvort menn skildu hann eða ekki, segir hið sama á sinn stutta og spámannlega hátt: „Eðli manns eru örlög hans".

# Empedokles

Þegar Sókrates í „Phaidon“ spyr sjálfan sig, hvort við hugsum með blóðinu, þá er þar á ferðinni kenning heimspekingsins Empedoklesar, þess er stofnaði læknaskólann á Sikiley. Að sjálfsögðu hefur Empedokles viðrað kenningar sínar á Agóru, stórtorgi Aþenu, á ferðum sínum milli Ítalíu og Austurlanda, þar sem hann er sagður hafa numið læknislist sína. Þar var hann einnig sagður hafa lært að segja fyrir óorðna hluti og gera kraftaverk.

Empedokles var frá Girgenti (sem þá nefndist Agrigentum) á suðurströnd Sikileyjar og var uppi um miðja fimmtu öld fyrir Krists burð (um 490—430). Hann var manna mælskastur og tók mikinn þátt í stjórnmálum, en hafnaði þjóðhöfðingjatigninni eins og Herakleitos. Hann var í senn læknir, spámaður og

skáld. — „Þúsundirnar koma til mín“, segir hann í kvæðabálki sínum um veröldina, „og biðja mig að vísa sér veg til frelsunar. Þær koma til að leita hjá mér frétta um hið ókomna, og enn aðrir biðja mig um máttugt orð til að kveða niður þrálátan sjúkdóm“. Empedokles var rekinn í útlegð á gamals aldri og lézt á Pelópseyjum á Grikklandi. Þjóðsagan og þýzka skáldið Hölderlin láta hann þó hverfa niður í gíg Etnu. Önnur saga segir hann hafa orðið uppnuminn. Í vitund fólks var Empedokles spámaður og ólíkur dauðlegum mönnum.

Hinn víðförli heimspekingur Empedokles reynir að sætta þau sjónarmið, sem hann hefur kynnzt heima fyrir (Pyþagóringar og heimspekingarnir í Elea), og þau, sem hann kynntist á ferðum sínum austur. Hann er Herakleitosi sammála um tilveru hreyfingarinnar og breytinganna. En hann er einnig sammála Parmenidesi um, að í innsta eðli sínu sé tilveran óumbreytanleg og eilíf. Þetta varð einnig niðurstaða Sókratesar og Platós. Enginn hlutur, segir Empedokles, á sér algert upphaf eða algeran endi. Þegar eitthvað nýtt kemur fram á sjónarsviðið, þá er það aðeins ný

„blanda“ þess, sem alltaf hefur verið til. Dauði er á sama hátt „upplausn“, en ekki eyðing. Það, sem aldrei verður til og aldrei eyðist, eru frumrætur tilverunnar. Þessar rætur eru fjórar: Eldur, loft, vatn og jörð (höfuðskepnurnar). En þetta er í raun og veru ekki hið síðasta orð Empedoklesar. Höfuðskepnurnar eru í raun og veru aðeins kraftbirting æðri máttar, sem er „frumefni“ allra „frumefna“. Þennan æðsta mátt (sem er óefnislegur) táknar Empedokles með guði ástarinnar.

Og það er einmitt þessi máttur, ástin, og andstæða hennar, hatur, sem setur höfuðskepnurnar á hreyfingu og lætur „frumefnin“ blandast og leysast sundur. Í upphafi ríkti ástin ein. Allt var sameinað í eitt. Þá birtist skyndilega ranghverfa ástarinnar, hatrið (öfl sundrungarinnar). Baráttan hófst, og efnið tók að greinast sundur. Þeir tímar koma, að öfl sundrungarinnar greina allt sundur til fulls. Öll samsett gervi líða þá undir lok. En þá snýr straumurinn við. Ástin tekur að sameina á ný og verður loks einráð um skeið. Þannig er hin eilífa hringrás tilverunnar, að áliti hins mikla læknis Empedoklesar, knúin áfram af æðaslögum ástar og haturs.

Empedokles kennir, að sálin sé komin frá heimssálinni, og táknar hana með eldi eins og Herakleitos. En hvernig stendur þá á því, að Empedokles er sagður kenna, að við hugsum með blóðinu? Empedokles trúir á og boðar kenninguna um endurholdgun og fortilveru sálarinnar. Ef Empedokles hefur kennt, að menn hugsi með blóðinu, en boðar um leið fortilveru og líf eftir dauðann, hljóta menn að spyrja: Með hverju hugsar sálin, áður en hún kom í líkamann og blóðið? Og með hverju hugsar hinn framliðni, eftir að blóð hans er runnið? Af þessu einu er greinilegt, að kenning Empedoklesar er ekki rakin nema til hálfs, þegar sagt er, að hann hafi kennt, að menn hugsi með blóðinu. Ýmsir fræðimenn hafa haldið því fram, að Empedokles hafi aldrei hugsað út í þessa augljósu mótsögn, aðeins ruglað saman andstæðum kenningum. Þessi víðförli og gáfaði heimspekingur hefði þá furðu lítið lært á ferðum sínum og kunningsskap við þá menn og þau fræði, sem mótuðu hina fyrstu miklu menningaröld í sögu manneskjunnar, 5. öldina fyrir Krists burð. — Það, sem veldur því, að um þverbrest virðist vera að ræða í kenningum læknisins og heimspek-

ingsins Empedoklesar um sálina og hugsunina, er það, að hann gerir ekki ráð fyrir, að maðurinn hafi eina „sál“, heldur tvær „sálir“. Önnur er guðlegrar ættar og eilíf, lifir og hugsar fyrir og eftir jarðlífið. Þá sál táknar Empedokles með eldi. Hin sálin er hvatameðvitundin eða dýrsálin, arfur hinnar jarðnesku þróunar, eðlisávísun, hvatir og kenndir og þær hugsanir, sem allt þetta vekur. Þessi sál er okkur í blóð borin. Læknirinn Empedokles hafði komizt að þeirri niðurstöðu, að hvatir og kenndir dýrsálarinnar (hungur og þorsti, ótti og reiði o. s. frv.) ættu sér líffræðilega orsök. Og í blóðinu blönduðust öll þau efni, sem voru hin líffræðilega orsök hvata, tilfinninga og hugsana (dýrsálarinnar). Og blóðið var einnig farvegur þeirra og bar þau um allan líkamann. Þess vegna kenndi Empedokles, að „við hugsuðum með blóðinu“, en sú hugsun var bundin við hvatavitundina. Þetta var niðurstaða mikils læknis og heimspekings, og það er ekki hans sök, þó að ýmsir fræðimenn síðari tíma hafi ekki skilið þann greinarmun, sem hann gerði á hinni líffærafræðilegu „sál“ mannsins og þeirri, sem er guðlegrar ættar og eilíf.

Maðurinn getur ekki skilið neitt, nema í honum sjálfum sé einhver hliðstæða þess. Maðurinn skilur veröldina, vegna þess að hann er veröldin. Jörðin og fortíð lífsins á jörðinni er honum í blóð borin. Þessi arfur felst í dýrsálinni, og vegna þess að í henni eru hliðstæður jarðarinnar og lífsins á jörðinni, getum við skynjað og skilið þetta tvennt. Hin ódauðlega sál mannsins skynjar aftur hina andlegu heima, vegna þess að hún er, eins og fyrr segir, af guðlegum og andlegum uppruna. Þess vegna á maðurinn einnig þegnrétt í hinni æðri tilveru.

# Anaxagóras

Þannig kenndi Empedokles, og a. m. k. Anaxagóras hlustaði. Almennt er talið, að Anaxagóras hafi komið til Aþenu um 460 og verið þar í 30 ár. Þá hefði Sókrates átt að standa á fertugu. Í Phaidon er farið fleiri orðum um Anaxagóras en aðra heimspekinga. Samt getur Plató þess hvergi, að Sókrates og Anaxagóras hafi þekkzt. Gæti þetta bent til, að þetta tímatal í sambandi við Anaxagóras sé rangt og að hann hafi verið fyrr á ferðinni, eins og próf. Taylor telur.

Anaxagóras var frá Klazmanai í Litlu-Asíu. Hann var af auðugri og valdamikilli ætt, en varð eins og Sókrates fátækur vegna fræða sinna. „Heimspekinni“, segir Anaxagóras, „á ég að þakka veraldlega örbirgð mína og auð-

legð sálar minnar“. Eins og Sókrates var Anaxagóras ákærður vegna heimspeki sinnar og vegna afstöðu sinnar til stjórnmála. Dauðadómur beið hans. En Anaxagóras, sem kennt hafði Periklesi, Euripidesi og Prótagórasi mælskulist og lífsspeki, bjargaði sér á flótta til Lampsakos, þar sem hann lézt um svipað leyti og Empedokles í útlegð sinni á Pelópseyjum. Anaxagóras var Empedoklesi sammála um, að alger breyting væri ekki til. Hins vegar var hann andvígur kenningum hans um „frumefnin“ fjögur. Í fyrsta lagi, sagði Anaxagóras, eru þessar höfuðskepnur alls ekki frumefni, heldur er hver þeirra samansett úr mörgum efnum. Frumefnin eru þess vegna ekki fjögur. Þau eru meira að segja óendanlega mörg og öll jafnupprunaleg. Eitt getur ekki orðið að öðru, og þess vegna er ekki til neitt eitt frumefni, sem allt annað efni er komið frá. Frumefnin voru í upphafi eins og fræ, óendanlega mörg og smá, og eðli þeirra og magn var óumbreytanlegt. Þá var efnið hreyfingarlaust og án anda. Það, sem veldur því, að efnið komst á hreyfingu og tók að skipast saman og greinast í sundur eftir ákveðnum lögmálum, er andinn.

Áður en heimurinn var skapaður, voru „fræ“ hinna óendanlega mörgu frumefna efnisheimsins ein órofa heild og eitt var blandað öllu. Allt var þá allt. Þá var andinn fráskilinn þessum óskapnaði og dauða efnisins og lifði sínu sjálfstæða lífi. En loks hófst innrás hans í efnisheiminn og setti hann á hreyfingu. Þessi hreyfing var hvirfilhreyfing, sem breiddist út í sífellt stærri og stærri hringum. Við þessa hreyfingu greindust efnin og heimurinn varð til. Andinn er í þessu efni og stjórnar því, en er þó óháður því og sjálfstæður. Andinn er í öllu lífi jafnt. Að maðurinn hefur t. d. meira „vit“ en jurtin eða dýrið, byggist eingöngu á mismunandi þroskastigi líffæranna. Andinn er fullkominn og getur ekki þróazt. Þróun er það, að hann smíðar sér sífellt fullkomnari tæki. Eftir því sem líffærin verða fullkomnari, eftir því getur andinn birzt á hærra stigi eða í ríkari mæli. Þannig er andinn alltaf hinn sami, en farvegur hans misjafnlega þröngur.

Sókrates og Plató eru á sama máli og Anaxagóras um, að andinn sé orsök veraldarinnar og að hún stjórnist af andanum. Gagnrýni Sókratesar á heimspeki Anaxagórasar er því

ekki beint gegn þeirri kenningu í sjálfu sér, heldur framsetningu hennar og ófullnægjandi skýringum á, hvernig andinn setur efnið á hreyfingu og leiðir allt til bezta vegar. „Þegar ég leitaði nánari skýringar", segir Sókrates, „komst ég að raun um, að heimspekingurinn hætti að tala um hugann eða hinn stjórnandi anda og fór í þess stað að ræða um loft, eter, vatn og önnur óskyld efni". — Anaxagóras hliðrar sér hjá að ræða til hlítar, hvar andinn var „í upphafi" utan efnisheimsins og áhrifalaus. Kyrrstaða og aldeyða efnisins er háð því skilyrði, að andinn sé áhrifalaus og efnið óháð andanum.

# Demókritos

Demókritos er sagður höfundur atómkenningarinnar og efnishyggjunnar.

Hann er áratug yngri en Sókrates, fæddur 460 f. Kr. Hann var af ríkustu ætt verzlunarborgarinnar Abderu. Sjálfur Xerxes konungur gisti í húsi foreldra hans, þegar hann var þar á ferð. Að launum er hann sagður hafa skilið eftir austurlenzka spekinga til að annast menntun sveinsins.

En það komu fleiri framandi heimspekingar til Abderu. Einn þeirra var Leukippos. Hann var sagður frá þeirri frægu Miletos í Litlu-Asíu. Í Abderu stofnaði hann heimspekiskóla, og kenningar hans voru skráðar og skýrðar af frægasta nemanda hans, Demokritosi. Demokritos varð manna víðförlastur, en á Agóru

virðist kenning hans ekki hafa vakið verulega athygli. Bækur skrifaði hann margar, en varðveitzt hafa brot ein.

Demokritos er sammála Empedoklesi og Anaxagórasi um, að tilveran sé byggð upp af frumeindum — atómum. Þessi atóm eru óendanlega mörg og mismunandi að þyngd og lögun. Þau eru, eins og nafnið bendir til, ódeilanleg og verða ekki klofin í smærri efnisagnir. Nú getur atóm ekki verið til, nema það sé aðgreint frá öðrum atómum með tómi. Án þessa tóms gætu atómin ekki heldur hreyfzt úr stað. Tómið hlýtur því að vera til. Þetta tóm í heimspeki Demokritosar er þó ekki sama og „ekki-veran" í heimspeki Parmenidesar. Í augum Demokritosar er tómið veruleiki engu síður en atómið og þess vegna hvort tveggja „veran". Hreyfing er, að áliti Demókritosar, aðeins eiginleiki atómsins sjálfs, en er ekki vakin af utanaðkomandi afli, eins og Empedokles áleit. Þess vegna hreyfist veröldin af sjálfu sér eftir ósjálfráðum lögmálum.

Sálin er gerð úr eldlegum atómum, sem eru dreifð um allan líkamann. Þessi sálaratóm eru raunar í allri náttúrunni.

Heimspeki Demokristosar hefur verið túlkuð

á ýmsan hátt, enda vafalaust margir straumar um hann leikið. Algengast er að telja hann höfund atómkenningarinnar og jafnvel efnishyggjunnar. Hvort tveggja er þó aðeins vafasöm „skólaspeki“.

Þungamiðja Vaisesika-heimspekinnar indversku (frá 6. öld f. Kr.) er einmitt „atómkenningin“. Hún var vel þekkt í Miletos, og þaðan kom Leukippos til Abderu og kenndi Demokritosi. Anaxagóras og Empedokles boðuðu hana raunar báðir, þó að Demokritos greini á við þá um ýms atriði. Og loks þekktu Pyþagóringar hana fyrir dag Demokritosar og viðurkenna tómið, sem þeir kölluðu „apeiron“. Plató gengur fram hjá atómkenningunni, þar sem „atóm“ hans eru „frummyndir“. Að Plató hafi hvergi fengið nasasjón af atómkenningunni, eins og prófessor Burnet telur, er næsta ósennilegt.

Það er einnig vafasamt að kalla Demokritos höfund efnishyggjunnar. Það er jafnvel líklegt, að „atóm“ Demokritosar séu, þegar heimspeki hans er skoðuð niður í kjölinn, fremur andlegs eðlis en efnislegs. Aristóteles segir: „Leukippos og Demokritos gera alla hluti að „tölum“ („tölur“ á máli Pyþagóringa merkja

frumhugmyndir) líka (þ. e. a. s. eins og Pyþagóringar) og láta alla hluti eiga rætur sínar að rekja til hugmynda". Ef Plató, lærifaðir Aristótelesar, hefur skilið þetta á sama hátt, þá er þögn hans um „atómkenninguna" eðlileg. Hún félli þá af sjálfu sér inn í kenningu Platós og Sókratesar um frumhugmyndirnar. Sú efnislega atómkenning, sem Vesturlönd trúðu á frá Dalton og fram á miðja 20. öld, kemur því í raun og veru ekki fram í heimi hinnar fornu heimspeki. Hún byggist öll á öðrum grunni.

Plató og Sókrates eru sammála Demokritosi um, að tilveran sé margbreytileg, þar sem um margar frumhugmyndir er að ræða, eins og talað er um margar mismunandi frumeindir hjá Demokritosi. En þeir samþykkja þó um leið einingu Parmenidesar, þar sem þeir álíta allar þessar frumhugmyndir sameinast í einni, guðdóminum, eins og hugsanir guðs í huga hans.

# Prótagóras

Eftir allt það, sem sagt hafði verið um alveruna, fór sumum mönnum að finnast rétt að skipta um umræðuefni. Prótagóras frá Abderu og Sókrates sneru þess vegna frá heimsgátunni og reyndu í þess stað að ráða gátu mannsins og kanna djúp hans og takmarkanir. Prótagóras kenndi fyrir fé og varð fyrstur Sófista. Sjálfur var hann þó alvarlegur og heiðarlegur í heimspeki sinni. Trúleysi fylgjenda hans á lög, rétt og sannindi var ekki að finna hjá honum sjálfum, þó að kenning hans leiddi til þess. Sófistarnir létu „hið hagnýta" ráða gerðum sínum og sögðu og gerðu það eitt, sem þeim kom að gagni. En maður eins og Prótagóras, sem var ofsóttur og hrakinn í útlegð vegna óvinsælla skoðana, getur

ekki verið trúlaus á, að eitt sé öðru réttara. Slíkur maður miðar ekki kenningar sínar eingöngu við gróðavon.

Almennt er talið, að Prótagóras hafi verið dæmdur fyrir skoðanir sínar og bækur hans brenndar opinberlega á Agóru 411 f. Kr. Rök próf. Burnets fyrir því, að þessi saga fái varla staðizt vegna þess, hve útbreidd rit hans voru eftir hans dag, eru ekki sannfærandi. Prótagóras var jafnfrægur á Sikiley og Ítalíu eins og í Aþenu. Bókabruni í Aþenu hefði ekki náð nema til nokkurs hluta af „upplaginu". Og það, að bók er brennd, eykur aðeins löngun manna til að kynnast henni og eignast hana. Ástæðan fyrir dómnum og bókabrunanum var talin bók Prótagórasar um guðina, sem hófst á orðunum: „Ég get ekki verið viss um, hvort guðirnir eru til eða ekki eða hverju þeir líkjast. Þar er margt, sem stendur í vegi fyrir öruggri þekkingu, því að málið er myrkri hulið og ævi manna er stutt".

Þessi bók var lesin upp í húsi skáldsins Euripidesar, en þeir voru nánir vinir. — Prótagóras var hrakinn frá Aþenu og fórst með skipi sínu á leið til Sikileyjar.

Parmenides og Herakleitos höfðu kennt

Prótagórasi, að skynfærin hafi ekki reynslu nema fyrir hinu hverfula og stundlega. Þau fræði ekki um nein óhagganleg sannindi né algilda þekkingu. Og skynsemin, segir Prótagóras, er ekki nema fóstur skynfæranna. Maðurinn þekkir því ekki nema fyrirbrigði, það sem hann sér, og þessi fyrirbrigði eru í sjálfum sér jafnsönn eða ósönn. Maðurinn er því mælikvarði allra hluta. Algild þekking er ekki til. Sannindin verða jafnmargvísleg og einstaklingarnir. Lærisveinar Prótagórasar, Sófistarnir, botnuðu hina hálfkveðnu vísu: Allar skoðanir manna eru jafnsannar, en sumar eru gróðavænlegri en aðrar. Þeir sneru sér einkum að mælskulist og stjórnmálum, en Sókrates leitaði í aðra átt — að sál sinni og hinu algilda og óforgengilega.

Sókrates og Plató eru sammála Prótagórasi og öðrum Sófistum um, að ef þekking byggist aðeins á skynjun skynfæranna, þá er óhugsandi, að maðurinn geti öðlazt sanna þekkingu. Þess vegna leitaði Sókrates með félögum sínum á dýpri mið, að innsta kjarna mannsins, sem þekkti hinn innri veruleika, — hið algilda.